# Kristilegra Trúarbragda
# Høfud-Lærdómar,

til

almennilegrar uppbyggíngar.

Samanteknir af

Mag. Christjáni Basthólm,

Lærimeistara í Gudfrædinni, konúnglegrar Hátignar Skripta-fødur og ædsta Hof-predikare.

## Sídari Parturinn

á Islendsku snúinn af

Gudmundi Jónssyni,

Prófasti og Sóknar-presti til Stadastadar og Búda í Snæfellsness-sýslu.

Selst almennt innbundinn, 54 skild.

Leirárgørdum vid Leirá, 1799.

Prentadur á Forlag Islands almennu Uppfrædíngar Stiptunar,

af Factóri og Bókþryckjara G. J. Schagfjord.

# Innihaldid.



XXXV.

## XXIV. Kapituli.

### Um Jesú heilaga Líferni.

Að allt Jesú líferni hafi verið heilagt og óſaurgað af ſyndinni, það kénnir ſkynſemin, það ſtaðfeſtir Ritníngin. Sjálf ſkynſemin, þegar hún annars meðtekur hina aðra Ritníngarinnar vitnisburði um Krist, hlýtur líka að meðtaka þennann, og þó Ritníngin aldrei vitnaði það, þá hlyti hún þó af ſjálfri ſér að gèta ſjeð það, að Jeſús Kriſtur gat ei verið ſaurgaður af ſyndinni, eins og aðrar manneſkjur. Ritníngin ſegir: að Jeſú manndómlega náttúra hafi ecki verið gètin eptir náttúrunnar eðlislegum hætti, heldur af Guðs-meðals-lauſum almættis-krapti; þeſs vegna kom hans manndómlega náttúra beinleiðis frá Skaparans höndum, og það, ſem kémur réttlínis frá höndum þeirrar heilöguſtu veru, hlýtur nauðſynlega að vera hreint og heilagt. Kriſtur var þeſs vegna ecki í ſínum gètnaði ſaurgaður með ſyndinni, eins og aðrir Adams niðjar. Ritníngin ſegir: að Jeſús Kriſtur hafi verið guddómleg perſóna, og að hans manndómlega náttúra hafi með hinum náqvæmaſta hætti verið ſameinuð við guddóminn; ſkynſemin ſjer þeſs vegna auðveldlega, bæði að guddómurinn gat ei verið ſvo náqvæmlega ſam-

 einaður

einadur þeirri veru, sem var saurgud af synd-
inni, og líka ad sú guddómlega náttúra, sem
allt frá gétnadinum var svo náqvæmlega sam-
einud Krists manndómlegu náttúru, ad hún
var svo sem sálin í Jesú sál, og stjórnadi öll-
um hans þaunkum, girndum, ordum og at-
hofnum, ad hún, segi eg, kunni líka svo ad vard-
veita Jesú manndómlegu náttúru, svo ad hún
ecki vanvirdtist edur vanhelgadist af neinni synd-
samlegri saurgun. Ritníngin segir, ad Jesús
Kristur hafi átt ad gjöra forlíkun fyrir alls
heimsins syndir; og skynsemin sjer audveldlega,
ad sá, sem átti sorlíka fyrir annara manna
syndir, hlaut sjálfur ad vera frí fyrir synd, og
ad Kristur, ef hann sjálfur hefdi verid synd-
ugur, þá hefdi hann ei gétad borgad sína eg-
in sekt, miklu sídur annara. Þannig kann
skynsemin, þegar hún ádur er upplýst af Ritn-
íngunni, ad þéna til ad stadfesta Ritníngar-
innar lærdóma. Ef ad Ritníngin eptir allt
þetta, sem hún hefir kénnt um Krist, til-
legdi honum samt sidferdislegann ófullkomleg-
leika, þá mundi skynsemin strax sjá hvorsu þad
mótsegdi sér sjálft.

En svo sem skynsemin sjer, ad þvílík per-
sóna, sem Jesús Kristur var, hlaut naudsyn-
lega ad vera hrein af allri syndsamlegri saurg-
un, svo stadfestir Ritníngin líka þad sama um
Krist. Spámennirnir segja ecki einúngis um
þeirra tilkomandi Messíam, ad hann mundi
elska réttlætid, en hata ógudlegleikann,

Psálm.

Psálm. 45. Að hann ecki mundi gjøra ofriki, og engin svik mundu finnast i hans munni, Es. 53. Heldur stadfesta Postularnir þad sama um Krist; allstadar finnum vér þessa vitnisburdi um hann: ad hann ecki hafi gjørt synd, 1 Pét. 2; ad hann hafi verid hreinn af synd, 2 Cor. 5; ad ecki hafi verid synd hjá honum, 1 Jóh. 3; ad hann hafi verid reyndur i øllum hlutum, ad syndinni frátekinni, Ebr. 4.

Eins og Ritníngin í þessu efni stadfestir skynsemina, svo stadfestir Jesú gjorvalla lífssaga aptur Ritníngarinnar vitnisburd. Í ollu Jesú framferdi gétur jafnvel ecki þad skarpskygnasta auga uppgøtvad þann minnsta blett, hvaraf álycktad verdur um spillt hjarta. Hér verdum vér ecki varir vid þær óreglulegu girndir, þær offreku, sinnis-hræríngar, þau skilníngarvitanna yfir-ráð yfir skynseminni, sem hjá oss láta daglega í ljósi þá vanart, sem oss er medfædd. Hvørsu megum vér dádst ad því, hvørsu Kristur var ætíd ánægdur med þad, sem hann naudsynlegast medþurfti, og var rólegur einninn þó þad bristi. Refar hafa hólur, segir Kristur, og himinsins fuglar hafa hreidur; en mannsins sonur hefir ecki þad, hvar ad hann géti hallad sínu høfdi, Matth. 8. Hvílík stadføst þolinmædi í øllum hans líkamlegu og andlegu lídunum! hvílik vidqvæm tilfinníng, þegar hann sá mannanna eymd, er jafnvel brautst út í tárum, þá hann setti sér

fyrir sjónir Gydínganna yfirhángandi ófarir! hvílík ósigrandi hógværd vid hans óvini og foraktara! honum var formælt, hann blessadi; hann var ofsóktur, hann þoldi þad. Pétur, sem var sjónar-vottur til Jesú heilaga fram-ferdis, aflegdur þessa játníngu um hann: hann galdt ecki smánar-ord fyrir smánar-yrdi, hann brúkadi ei heitíngar-yrdi þá hann leid; heldur fól þad honum á hendur, sem rétt dæmir, 1 Pét. 2; þá einúngis upptendr-adist hans heilaga vandlæting, þegar dýrd hans Fodurs var annarsvegar, Jóh. 2. Hvílík for-likunarsemi vid þá, sem hann aflífudu! Fadir! þannig bad hann á krossinum, fyrirgéf þeim, þvi þeir vita ei hvad þeir gjøra, Lúc. 23. Hvílík rósemdarfull undirgéfni undir vilja síns Fodurs, einninn þegar hann sá fyrir hønd-um þann hryllilegasta daud-daga: minn Fadir! sagdi hann, sé þad møgulegt, þá lát þenn-ann kaleik víkja frá mér, þó ecki sem eg vil, heldur sem þú villt, Matth. 26.

Þvílíkur madur, er vid sérhvørt tækifæri og í ollum lífsins kríngumstædum sýndi þad, hann aktadi lítid fyrir heiminn og jardneska hluti, er audsýndi svo mikla þolinmædi í mót-lætinu, svo mikid vorkunlyndi vid breyskleika sinna vina, svo mikla hógværd og forlíkunar-semi vid sína óvini, svo mikla undirgéfni und-ir Guds vilja, svo mikla stjórn yfir sínum skiln-íngar-vitum og sínum sinnis-hræríngum, um þvílíks manns hjarta gétum vér ecki haft þá minnstu

minnstu grunsemi, svo lengi hann synir ecki þad, sem þessu er gagnstædt. Af þvílíkum manni, hvørs þenkíngar-máti er svo ágætur og ypparlegur, kunna menn ei ad vænta annars, enn þeirra fegurstu og ágætustu athafna; og þvílíkar vóru Jesú Krists athafnir. Guds dýrd og mannanna farsæld var þad einasta takmark allrar hans vidleitni; ætíd hafdi hann þetta takmark fyrir augum sér, og veik aldrei frá því.

Vér fremjum opt margar fagrar og ágætar athafnir; en ef vér lítum eptir tilgánginum, þá er þad ecki Guds dýrd, heldur vor egin vegsemd, sem vér leitum eptir. En þannig var því ecki háttad fyrir Kristi: ef eg vegsama mig sjálfur, segir hann, þá er mín vegsemd engin; minn fadir er sá, sem vegsamar mig, um hvørn þér segid, ad hann sé ydar Gud; og þér þeckid hann ecki, en eg þecki hann, og ef eg segdi, ad eg þeckti hann ecki, þá væri eg lygari, eins og þid; en eg þecki hann og held hans ord, Jóh. 8. Kristur sagdi ecki einúngis, ad hann ecki leitadi sinnar, heldur fødursins dýrdar; heldur og sannadi hann med verkunum, hvad hann sagdi. Engin manneskja kann ad tileinka sjálfri sér vegsemdina fyrir sínar athafnir, þared allt hvad vér erum, allir vorir kraptar og fullkomlegleikar ecki tilheyra oss, heldur eru óforþént Skaparans gáfa; Kristur einsamall, svo sem guddómleg persóna, hefdi med réttu mátt til-

 einka

einka sér sjálfum alla sína lærdóma og krapta-verk; og þó vildi hann heldur tilreikna sínum födur allt þetta heldur enn sjálfum sér, svo hans fadir kynni ad vegsamast fyrir hann; trúir þú ecki, segir Kristur, ad eg er í fødurnum, og fadirinn í mér? þau ord, sem eg tala til ydar, tala eg ecki af sjálf-um mér; og fadirinn, sem í mér er, hann gjørir þau verk, Jóh. 14. Øll sú vegsemd, sem Kristur leitadi eptir, var þarí innifalin, ad hann kynni ad framqvæma vilja síns fod-urs, sem hafdi sendt hann, og afljúka því er-indi, hvørs vegna hann var útsendur. Þess vegna útbrýzt hann med þessa bæn til síns fodurs: Fadir! stundin er komin; vegsama son þinn, svo ad þinn sonur einninn veg-sami þig; svo sem þú hefir gefid honum vald yfir øllu mannkyninu, ad hann gefi øllum þeim, er þú gafst honum, eilíft líf. En þad er eilíft líf, ad þeir þecki þig, þann einasta sanna Gud, og þann þú sendir Je-súm Krist. Eg hefi vegsamad þig á jørdunni, eg hefi aflokid því verki, sem þú fékkst mér ad gjøra. Vegsama mig nú, Fadir! hjá sjálfum þér med þeirri dýrd, er eg hafdi hjá þér, ádur enn heimurinn var til. Eg hefi opinberad þinn lærdóm fyrir mønnunum, hvørja þú gafst mér af himninum, þeir voru þínir og þú gafst mér þá, og þeir hafa vardveitt þín ord. Nú þeckja þeir, ad allt hvad þú gafst mér,

er frá þér. Því hann lærdóm er þú gafst mér, hefi eg gefid þeim; og þeir hafa medtekid hann, og þeckja sannlega, ad eg er frá þér útgenginn, og trúad, ad þú hafir sendt mig, Jóh. 17. Hvorsu ljóslega vitnar þessi ágæta bæn um Jesú Krists heilaga framferdi? Gudi tileinkar hann allt, en eckért sjálfum sér, utan þá æru, ad hann hafdi breytt eptir vilja sins fodurs, og uppfyllt þann tilgáng, hvar fyrir hann var í heiminn sendur; hvört líf kann ad kallast heilagt, ef ecki þad, sem eldúngis er brúkad Gudi til dyrdar?

En vér eblum ecki Guds dyrd, vér gjörum ecki hans vilja og uppfyllum ecki þann tilgáng, hvar fyrir vér erum til, utan vér líka brúkum vort líf til ad ebla farsæld vorra medbrædra. Þetta stóra takmark hafdi Jesús Kristur líka ætíd fyrir augum. Ef vér athugum Jesú lærdóma, þá midudu þeir allir til ad gjöra vor hjörtu farsæl med dygdinni, ad hughreysta oss í lífsins andstreymi, ad gjöra vora samvitsku rósama, ad auka oss djörfúng á móti daudanum, grofinni og eilífdinni. Ef vér athugum Jesú verk, hvörsu gódgjörn vóru þau? aldrei brúkadi hann sitt almætti til ad straffa sína óvini, edur lét sína mótstödumenn kénna á þeim krapti, sem í honum var, og sem þeir svo þráfinnis spottudu; heldur sumpart til ad þryckja guddómsins innsigli á sína gódgjordasömu lærdóma, svo mannesskjurnar skyldu verda þess fúsari til ad medtaka

taka þá, og með því að meðtaka þá, skyldu verða þess farsælli; sumpart líka til að létta af manneskjunum þeirra líkamlegu neyð. Hjá honum fengu þeir blindu sjónina, þeir heyrnarlausu heyrnina, þeir mállausu málið, þeir limafalls-sjúku hreystina; af honum vóru þeir líkþráu hreinsaðir, þeir djöful-óðu fríaðir frá illra anda yfir-ráðum, og þeir dauðu aptur uppvaktir til lífsins. Hvörsu góðfúsar vóru þá ei allar Jesú athafnir? hvörsu var þetta heilaga líf útgéfið til að gjöra gott? með hvílíkri kostgæfni géck hann með erfiði og bæn og föstu frá einni borg til annarar, frá einu þorpi til annars, svo að manneskjurnar skyldu allstaðar verða aðnjótandi hans góðgjörðasama almættis? þess vegna geck engin bæn óbænheyrð til baka; enginn nauðstaddur fór synjandi af hans fundi; enginn staður var án vitnisburðar um hans kjærleika til mannanna; allstaðar hlutu menn að játa, að guddómurinn væri á jörðina ofanstiginn, til að gjöra þa farsæla, sem á henni búa.

Gétum vér þá eitt augna-blik efast um Jesú lífernis heilagleika? svo hreint var þetta líf frá blettum, svo öldúngis útgéfið til Guðs dýrðar og mannanna tímanlegrar og eilífrar farsældar. Hvað var að undra, þó hann þyrði að gánga fram fyrir sína óvini, og krefja þá til vitnisburðar: hvörr af yður gétur sannfært mig um nockra synd? Jóh. 8. Ef nockurr annar maður væri svo djarfur að kref-

krefja slíks, mundi hann ei brádlega verda til skammar fyrir sína ofdyrfsku? hvad var ad undra, ad sjálfir hans óvinir hlutu ad bera vitni um hans heilaga líferni og óstraffanlegu hegdun? Júdas sjálfur, sem sveik hann, hlaut ad afleggja þessa játníngu fyrir því stóra Rádi: eg hefi illa gjört, ad eg sveik saklausann mann. Pilatus, sem dæmdi hann til dauda, hlaut optar enn sex-sinnum ad játa, ad hann findi enga dauda-sök hjá honum. Hans húsfrú bad hann, ad hann eckért skyldi hafa ad gjöra med þennann réttláta. Heródes hlaut ad hengja yfir hann hvítt klædi, til merkis um hans sakleysi, og senda hann aptur til baka til Pilatum. Hofudsmadurinn, og hinir adrir, sem horfdu á hans dauda, hlutu opinberlega ad afleggja þann vitnisburd, ad hann væri Guds Sonur. Fleiri rök þarf ecki ad framfæra til ad stadfesta heilagleika Jesú lífernis. Þegar vinir og óvinir verda hér samsaga í þeim sama vitnisburdi, þá hefir hann fullkomid abl.

* * *

Þessi sannleiki, ad Jesú gjörvalla líf var heilagt og ósaurgad, á ecki einúngis ad þéna oss til huggunar-ríkrar fullvissu um fullkomlegleika hans fridþægíngar; því hefdi hann sjálfur verid saurgadur af syndinni, hvörninn gat hans daudi þá verid þeirri heiloguſtu veru þægilegt offur, fyrir vanheilagra manna syndir? en þar hann sjálfur var hreinn af synd, þá

kunni Gud ad álíta hann sem syndara í vorn stad, og fyrir hans sakir gátum vér ordid réttlátir fyrir Gudi, 2 Cor. 5. En þessi sannleiki á einninn ad upporfa oss, sem Jesú Krists sanna áhángendur, til ad feta í hans eptirbreytnisverdu fótspor. Oss ber, sem kristnum, ad feta í Krists fótspor bædi á mótlætisins og dygdarinnar vegi. Fúsir eigum vér, eins og Kristur, ad beygja oss undir, þad mótlæti, sem vor fadir á oss leggur, og lída þad þolinmódlega. Eckert mótlæti getur oss tilfallid í heiminum, sem er svo þúngt, sem Jesú Krists, þar hann gaf sig í svo miklu hardara stríd; hvorninn kunnum vér, sem heita viljum hans eptirfylgjendur, ad mæla oss undan því léttara? til ad gánga í Krists fótspor eigum vér ecki sjálfir ad hlaupa út í mótlætid, edur steypa oss í þann háska, sem vér getum umflúid, þad væri ad freista Guds; en oss skal ei heldur þykja undarlegt edur bregdast ókunnugir vid, þó vér hljótum ad lída, þar vor stóri fyri-rennari hefir lídid á undan oss.

Þess vegna segir Kristur svo: hvørr, sem vill vera minn lærisveinn, hann taki sinn kross uppá sig og fylgi mér eptir, Lúc. 14. Med stødugleika og hughreysti eigum vér ad fylgja á eptir, þar Jesús Kristur hefir gengid á undan. Jesús Kristur geck igegnum pínuna inn til sinnar dýrdar; ef vér viljum gánga inn í dýrdina med honum, þá þurfum vér ei ad undrast yfir, þó vér, eins

og

og hann, hljótum fyrst ad gánga ígégnum ýmsar mótlætíngar. Einúngis sá, sem hér nidri hefir strídt med Kristi, kann ad vænta ad krýnast med honum sídar meir.

En vér eigum líka ad eptirfylgja Kristi á dygdarinnar vegi. Þar í er vor sanna tign og uppheſd innifalin, ad vér líkjumst Kristi og berum hans ímind. Vér leitum almennt æru í því, ad géta líkst þeim, sem í tilliti til þeirra stands, embættis og metorda eru oss fremri; og Jesú Krists eptirdæmi, sem var bædi Gud og madur, skyldi ecki upphvörfa oss! hans fyrirmindan skyldi enga verkun gjöra í vorum hjörtum! hvílík vanvirda fyrir oss! hann, Sonur þess allrahæsta, skyldi nidurstíga á jördina, hann skyldi gánga dygdarinnar veg á undan oss, hann skyldi eptirláta oss þau fegurstu dæmi, eptir hverjum vér svo óhult gétum fetad fram til farsældarinnar, og vér skyldum vera kaldir og dofnir þá vér höfum svo stóra fyrirmind? Jesú eptirdæmi, sem launar sínum eptirfylgjurum med eilífri sælu, skyldi verka minna hjá oss, enn heimsins syndsamlegi vani, sem gjörir oss óluckulega! gétum vér hugleidt þetta án þess ad rodna? gétum vér hugsad til þess, hversu kostgæfnir vér erum í því, ad líkjast Guds óvinum, og hversu dofnir vér erum í því, ad breyta eptir Jesú heilaga eptirdæmi, án þess ad þeckja, hversu djúpt vér nidurlægjum sjálfa oss, og hversu lángt vér erum frá þeirri tign, sem vér erum tilkalladir? vér

 gjör-

gjorum þad, sem er ófullkomid, ad formi vorra athafna, og vér apturlykjum augunum fyrir Jesú Krists fullkomnustu fyrirmindun! hvílíkt nidurdrep fyrir oss!

Ef vér annars hofum nockra sanna sómatilfinníngu í voru brjósti, þá egum vér ad metta hana med því, ad gánga í Jesú Krists fótspor, svo oll veroldin megi þeckja, ad vér erum hans eptirbreytendur. Annars hrósum vér oss forgéfins af vorum kristinndómi, forgéfins nefnum vér oss eptir hans nafni, forgéfins segjumst vér elska Krist og heidra hann. Hjá þeim, sem eg elska og virdi, finn eg fullkomlegleika, þessir fullkomlegleikar verda mér elskuverdir, eg leitast vid ad líkjast þeim, af því eg veit, ad eg aldrei gét framar þócknast þeim, sem eg elska, heldur enn þegar minn þenkíngar-háttur, mínar girndir, mínir sidir koma saman vid hans. Ef vér hofum nockurn sannann kjærleika til, og virdíngu fyrir Jesú Kristi, þá hlýtur sú sama lyst til ad líkjast honum ad upplífga vor hjertu. Þegar vér erum þolinmódir í mótlætinu, sem hann; undirgéfnir undir Guds vilja, sem hann; vorkunlyndir vid veikleika vorra vina, sem hann; forlíkunarsamir vid vora óvini, sem hann; þegar vér verjum vort líf, eins og hann vardi sínu, Gudi til dýrdar og monnunum til farsældar, þá erum vér sann-kristnir, sannir Jesú eptirfylgjarar, annars ecki.

XXV.

## XXV. Kapituli.

### Um Jesú fridþægjandi Dauda.

Eg hefi hér ad framan sært rök til þess, ad annarleg forlíkun sé naudsynleg, ef syndugar manneskjur skulu umflýja dómarans reidi, og brotlegar sképnur komast aptur í sátt vid þeirra Skapara. En var þad naudsynlegt, ad Frelsarinn skyldi deyja, til ad útvega manneskjunum sælufullann ódaudlegleika? var blódugt offur samqvæmast Guds heilagleika, hans vísdómi og hans réttlæti? þetta spursmál skal hér ransakast.

Ritníngin kénnir allvída, ad endurlausnarinn hafi hlotid ad deyja, ef hans fridþægíng skyldi vera fullgyld. An blóds úthellingar skédur engin forlíkan, segir Páll, Ebr. 9. Kristur segir: ad hans blód mundi úthellast til syndanna fyrirgéfningar. Esajas segir: ad hann mundi géfa sitt líf til skulda-offurs, Es. 53. Meira þyrstum vér ecki ad vita; þessi álýktan mætti vera nóg: þannig kénnir Ritníngin; med útþryckilegum ordum segir hún oss, ad heimsins Endurlausnari hafi hlotid ad deyja, ef heimurinn skyldi forlíkast fyrir hann. Oss mætti nægja ad álykta þannig: Gud heimtadi þetta offur, Kristur frambar þad til ad forlíka fyrir heiminn, og Guds réttlæti er gjörd fullnægja med því, þess vegna hlýtur þetta offur ad hafa verid naudsynlegt. En jafnvel þó Ritníngin kénni ánægilega, ad

Endurlausnarans daudi hafi verid naudsynlegur til vorrar fridþægingar, þá sjáum vér samt enn þá ecki nógu greinilega þessa naudsyn. Ef vér viljum þeckja hvorsu þessi fridþægjandi daudi var naudsynlegur, þá hljótum vér ad gjora þessa ályktun: sérhvor synd er vanbrúkan lífsins; þad náttúrlegasta straff fyrir vanbrúkad líf, er sviptir lífsins, edur daudinn; Kristur géck í syndaranna stad, hann hlaut þess vegna ad lída syndaranna straff, hann hlaut ad sviptast lífinu, hann hlaut ad deyja. Eg vil med fáum ordum útlista þessa ályktun.

Sérhvor synd er vanbrúkan lífsins. Þá brúkum vér hvorja eina gáfu réttilega, þegar vér brúkum hana eins og gjafarinn hefir tilætlast; þá vanbrúkum vér hana, þegar vér brúkum hana þannig, ad gjafarans tilgángur annadhvort ecki uppfyllist, edur hindrast. Hvorr var nú Skaparans tilgángur, þá hann kalladi oss fram af engu og lét oss verda til? Vér munum allir svara: ad Skaparinn, sem vegna síns óendanlega vísdóms, ecki gétur gjort neitt forgéfins, hlytur ad hafa haft fyrir augunum einn edur annann tilgáng, sem vér áttum ad framqvæma, og ad auglysing hans dyrdar hljóti medal annars ad hafa verid hans tilgángur. Þetta er verulegur tilgángur allra Guds sképna, ad þær þéna þeirra Skapara til dyrdar. Himnarnir, segir Davíd, framsegja Guds dyrd, og sú útþanda festíng verkin hans handa, Ps. 19. En, ecki ein

úngis

ångis himnarnir, ecki einúngis sú útþanda fest-íng; arid í sólar-geislanum allteins vel, sem sólin; sand-kornid ecki sídur enn jardar-hnött-urinn; ormurinn í moldunni allteins vel, sem höfud-engillinn frammi fyrir Guds hásæti, fram-flgja Skaparans dýrd, og kungjöra verkin hans handa. Tökum þad minnsta gras, gætum med athygli ad því minnsta skridqvikindi, og vér gétum ei neitad því, ad þad kunngjöri dýrd síns Skapara, og vegsami þad almætti, vísdóm og gædsku, sem þad tilbjó. Á þeim minnstu, sem þeim stærstu sképnum má sjá Skaparans dýrd. Allar hrópa þær til vor: þid skynsomu sképnur! skodid á ockur Skap-arans hátign, dáist ad og tilbidjid þá veru, sem mindadi ockur.

En sé þad eitt af augna-midum allra sképna, ad þær auglýsi hátign þeirra Skap-ara og alla hans endanlegu fullkomlegleika, ad svo miklu leiti, sem þeir géta af þeim aug-ljósir ordid; hvörsu miklu framar mun þá manneskjan hafa þetta augnamid? manneskj-an, sú ædsta af öllum sýnilegum sképnum? hvörsu miklu framar hlýtur hún ad vera sköp-ud til þess, ad hún skyldi þéna Skaparanum til dýrdar? og hvörninn eblum vér þetta augna-mid? máské med því haglega smídi vors líkama? máské med þeim dásamlega skapnadi vorrar skynjandi sálar? máské med því, ad láta sjá þær ágætu gáfur, sem Skaparinn hefir gædt oss med? já, uppá þennann máta vegsömum

vér

vèr vorn Skapara; en med sama hætti veg=samast hann einnig af því minnsta skrid=qvik=indi; þared á því, allteins vel sem á oss, má sjá Skaparans hátign. Mun Gud ecki heimta af oss, ad vèr vegsomum hann med ødrum hætti, þar vèr erum skynsamar og ædri skèpn=ur? vèr høfum svo miklu ædri náttúru, mun Gud þá ecki hafa miklu ædra augna=mid med oss? jú! vèr finnum þad hjá oss, ad vèr er=um þannig skapadir, ad vèr gètum þeckt vil=ja vors Skapara; hann hefir opinberad oss þann sama; hann hefir innskrifad sitt løgmál í vor hjørtu; vèr finnum hjá oss, ad vèr gèt=um breytt eptir, edur brotid á móti vilja vors Skapara. Þegar vèr undirkøstum oss þessu løgmáli, þegar vèr uppfyllum þennann Skap=arans vilja, þá vegsømum vèr hátign vors Skapara med vorri sjálfkrafa hlydni, med vorri hlydni játum vèr hans yfirdrottnun, hans al=vitsku, hans ósaurgada heilagleika, fyrir hvør=jum þánkinn sjálfur ecki er hreinn, hans stránga rèttlæti, fyrir hvørju tilgángurinn sjálfur er fordæmanlegur.

Med þessum hætti eigum vèr, sem skyn=semdarfullar og frjálsar verur, ad vegsama vorn Skapara; med þessum hætti eigum vèr, sem ædri skèpnur; ad kunngjøra vors Skapara ó=endanlegu fullkomlegleika, fleiri fullkomlegleika, heldur enn þá, sem kunngjerast af þeim daudu og skynlausu skèpnum. Þad er eitt af þeim augna=midum, hvar fyrir Gud gaf oss lífid og lèt

lèt oss verda til; en þá er þessi álÿktan lïka rètt: þess vegna er sèrhvør sÿnd vanbrúkan vors lïfs; þess vegna gjørum vèr med sèrhværri vïsvitandi óhlÿdni ad engu þad augnamid, hvørs vegna Gud skapadi oss. Sÿndarinn verdur ad sönnu enn þá meistara-stÿcki Skaparans almættis, vïsdóms og gædsku; ï þessu á hann sam-merkt vid dÿrin og grøsin, ad hann hlÿtur ad vegsama þessa eginlegleika sïns Skapara; en ecki sjáum vèr á honum Skaparans yfir-drottnun, hans alvitsku, allstadar nálægd, heilagleika og rèttlæti; þvï væri hann Drottinn, mundi hann þá ecki hlÿda honum? væri hann alvitur, mundi hann þá brúka myrkrid til ad hylja sïna glæpi? væri hann allstadar nálægur, mundi hann þá ecki blygdast vid ad gjøra þad, sem illt er, ï guddómsins nálægd? væri hann heilagur, mundi hann þá ecki hreinsa sig af øllum saurugleika holdsins og andans? væri hann rèttlátur, mundi hann þá ecki óttast hann? þad er þess vegna óneitanlegt, ad sèrhvør sÿnd, sèrhvør vïsvitandi óhlÿdni er afneitan Skaparans stærstu fullkomlegleika; sèrhvør sÿnd, sèrhvør vïsvitandi óhlÿdni er þess vegna vanbrúkan þess lïfs, sem oss var gèfid til ad vegsama med þvï vorn Skapara.

Eg vil setja þennann sannleika fyrir sjónir med ødrum hætti: þegar Gud skapadi oss, þá hefir hann ecki einúngis haft þad almennilega augna-mid med oss, ad vèr skyldum þèna

 hans

hans dýrd til vegsemdar; heldur hlýtur hann einnig ad hafa haft sérlegri tilgáng, sem af oss átti ad framqvæmast í hans stóra, takmarkalausa ríki. Vér gétum ecki neitad því um manneskjuna, sem vér hljótum ad medkénna um sérhvorja skynlausa sképnu. Hvorsu litla imindun, sem vér gétum gjort oss um Guds óransakanlega vísdóm, þá gétum vér þó sjed svo mikid, ad engin sképna er til af hendíngu, engin án stórs og vigtugs tilgángs. Þær minnstu grastegundir allteins vel, sem eikin og greni-tréd; þau smáu skorqvikindi, er fædast ad morgni og deyja ad qvoldi, allt eins vel sem fíllinn, hafa augnamid í náttúrunni, sem af þeim á ad framqvæmast; án tilgángs tilbjó Skaparinn þau ecki. Vér follum ad sonnu í stærstu forundrun, þá vér þenkjum til þessa; en þad er, líka þessi hugar-hræríng, sem á ad upplífga vor hjortu, svo opt vér skodum Skaparann í sképnunum. En sé þad óneitanlegt, ad sérhvor sképna, sú andvirdilegasta allt eins vel sem hin stærsta, hafi sitt augnamid í náttúrunni, fyrir hvors skuld hún er til; skyldi þá manneskjan, og hvor ein manneskja út af fyrir sig, eckert augna-mid hafa? hún væri þá lángtum minnihåttar enn þær sképnur, sem fyrir vorum augum eru þær andvirdilegustu. Og sé þad satt, ad vér hofum vort augnamid, sem af oss á ad framqvæmast, hvornin gétum vér þá eitt augnablik forsóma ad ad uppfylla þad, án þess ad vanbrúka vort líf?

lif? þær daudu og skynlausu skêpnur leidast til þess takmarks, sem þær eru tilætladar, med þeirri náttúrlegu sýn, sem Skaparinn hefir inngêfid þeim; og, manneskjunum til blygdunar, uppfylla þær med náqvæmasta hætti augnamid þeirra lífs. Vér þarámóti erum skynsemdarfullar og frjálsar verur, oss fyrirskrifadi Skaparinn einúngis sitt lögmál, med ómótstædilegum krapti kunnum vér ecki ad leidast til vors takmarks. Og þetta lögmál, hvad er þad annad enn auglýsing þess tilgángs, vegna hvörs Gud skapadi oss, og þess augnamids, til hvörs hann hefir ætlad oss. Ad yfirtroda þetta lögmál, er þess vegna ad víkja frá því takmarki, sem vér erum tilætladir; ad yfirtroda þetta lögmál, er ad gjöra ad engu tilgáng vors lífs. Hvör ein ásetníngs synd, hvör ein vísvitandi óhlýdni er þess vegna vanbrúkan vors lífs.

Eg vil nú draga hêraf þá álýktun, sem leidir mig nær því, sem eg er um ad tala: sê þad satt, ad sêrhvör synd sê vanbrúkan vors lífs, hvört er þá hid maklegasta og náttúrlegasta straff fyrir vanbrúkad líf? eg vil framsetja annad spursmál, sem líkt er þessu: þegar vér höfum gêfid einhvörjum gáfu nockra, og hann annadhvört brúkar hana ecki, ellegar vanbrúkar hana þvertámóti vorum tilgángi; hann vanbrúkar hana oss til vanvirdu, edur ödrum mönnum til skada, ellegar sjálfum sêr til ólucku; hvört straff er þá þad maklegasta?

hvort þad náttúrlegasta og réttvísasta? vér vitum allir ad svara: ad þad náttúrlegasta og vidurqvæmilegasta straff sé, ad svipta hann aptur þeirri vanbrúkudu gáfu. En med þessu svari fellum vér dóminn yfir sjálfa oss og allt mannkynid. Vér erum allir syndarar, allir yfirtrodslu-menn Guds lögmáls; sérhvör yfirtrodsla er vanbrúkan vors lífs; sviptir lífsins edur daudinn er þess vegna hid náttúrlegasta og vidurqvæmilegasta straff, sem Guds réttlæti hlaut ad leggja á syndarana. Þar á er grundvalladur þessi Guds dómur: á hvörjum degi, sem þú etur af því, skaltú dauda deyja. Þar á er bygdur þessi Postulans Páls lærdómur: daudinn er syndarinnar verdlaun, Róm. 6. Eins og syndin er fyrir einn mann innkomin í heiminn, og daudinn fyrir syndina, svo hefir daudinn innþreyngt sér til allra manna, af því allir hafa syndgad, Róm. 5.

Nú sjáum vér, hvörsu naudsynlegur Jesú Krists daudi var; nú skiljum vér, hvar fyrir sá, sem átti ad fridþægja fyrir heiminn, hlaut einnig ad deyja fyrir heiminn; því sá, sem átti ad gjöra forlíkun fyrir syndarana, hlaut ad bera syndaranna straff, og þetta straff er daudinn. Jesús Kristur géck í syndaranna stad; hann var þad Guds lamb, sem bar heimsins syndir, eins og Jóhannes sagdi, Jóh. 1. Dómarinn lagdi þess vegna á hann og lét koma nidur á honum þann dauda, sem

allir

allir syndarar, allir hans lögmáls yfirtroðslu-menn tilvinna, sem vanbrúka þeirra líf á móti gjafarans tilgángi, og með vanbrúkuninni gjöra sig þess óverduga. Offranir gamla Testa-mentisins vóru að vísu bílæti uppá þennann sannleika. Þegar menn frambáru þessar blóð-ugu offranir, þá var það eins og menn segðu: Guð! Drottinn! Lögg jafari! þetta er sá dauði, sem við forskuldum! þannig útheimtir þitt rétt-læti, að vér sviptumst lífinu, því lífi, er vér áttum að brúka þínu nafni til dýrðar, og til að framqvæma þinn góða og vísdómsfulla til-gáng, en, sem vér svo svívirðilega misbrúkum þér til vanheiðurs. En þó að þessi blóðugu offur væru bílæti Guðs reiði og þess straffs, sem allir lögmálsins yfirtroðslu-menn tilvinna, og sem heimsins Endurlausnari átti síðarmeir að líða í syndaranna stað, þá gátu þó þessi bílæti ecki annað enn gjört sálina hrædda og óttaslegna, því þau vóru ecki friðþægjandi, þau afmáðu ecki syndina, þau gjörðu ecki fullnustu Dómarans réttlæti, þau gátu ecki af eginn krapti útvegað fyrirgéfníngu. Jesú dauði þar-ámóti var friðþægjandi dauði. Hann stóð fyr-ir dómaranum, sem syndari í allra stað; rétt-lætið lagði þess vegna á hann þann dauða, sem allir syndarar verðskulda, er vanbrúka þeirra líf Skaparanum til vanheiðurs, þvertámóti hans vísdómsfulla og góða tilgángi; hann losaði einnig öllum þeim, sem með lifandi og ávaxt-arsamri trú meðtóku hann, þeim losaði hann,

 fyrir

fyrir hans skuld, sælusullum ódaudlegleika, þar hans réttlæti tilreiknast þeim, og þad straff, sem hann leid í þeirra stad, álitst eins og þeir hefdu siálfir lidid þad. Þess vegna segir Páll: þann, sem var hreinn af synd, áleit hann, sem syndara í vorn stad, svo ad vér, fyrir hann, skyldum verda réttlátir fyrir Gudi, 2 Cor. 5. Kriſts daudi var þess vegna ecki einúngis píslar-vættis daudi, ecki þvílíkur daudi, med hverjum hann einúngis, eins og Postularnir, stadfesti sínar guddómlegu kenníngar; jafnvel þó Kriſts daudi sé einninn í þessu tilliti sterk roksemd uppá, ad hann ecki var svikari, og ad hann þess vegna var sá, sem hann sagdist vera. Heldur var hans daudi sannarlega fridþægjandi daudi, þvílíkur daudi, sem var naudsynlegur til ad forlíka syndarana vid Dómarann, og Skaparann vid þær skepnur, er med syndinni hefdu vanbrúkad þeirra líf, og med vanbrúkuninni brotid þad af sér.

* * *

Med Kriſts fridþægjandi dauda erum vér ad sönnu ecki frelsadir frá þeim líkamlega dauda. Ódaudlegleiki í þessu lífi væri engin lucka fyrir oss, heldur ólucka, eptir heimsins nærverandi ástandi; heldur er oss med Kriſts fridþægjandi dauda opnadur vegur ígégnum daudann til sælufulls ódaudlegleika. Skyldum vér æskja oss ad vera ódaudlegir hér á jordunni? skyldi þessi ódaudlegleiki kunna ad álítast fyrir vel-

gjörn-

gjörníng? hér, hvar lífsins yndislegasti sætleiki er blandadur med beiskleika; hvar vér sífeldlega plágumst af gremju yfir því umlidna, óánægju med þad nálæga, og ótta fyrir því ókomna; hvar kristins manns himin aldrei er fullkomlega heidríkur, og sá fegursta sól er formyrkvun undirkostud; hvar sá eina manneskja er annarar óvinur, og sá eini bródir híns annars svikari; hvar enginn óhultur grida-stadur er fyrir náttúrunnar ásókn og frum-efnanna ædi-gángi. Eg vil segja enn nú meira: skyldum vér æskja oss ódaudlegleika í þessum heimi, hvar syndin býr? hvar sál hins heilaga varla hefir eins augna-bliks rósemi fyrir freistíngum hins synduga líkama; hvarímindunar-kraptúrinn forblindar, skilníngar-vitin tæla og gêdshræríngarnar þrífa af taumana; hvar holdid girnist á móti andanum og andinn á móti holdinu, og vér í þessu hættulega strídi svo opt hrösum, svo opt dettum, og egum svo bágt med ad standa upp aptur. Páll óskadi sér ecki þessa ódaudlegleika: þad góda, sem eg vil, gjøri eg ecki, segir hann, og þad vonda, sem eg vil ecki, gjøri eg; eg finn eitt annad løgmál í mínum limum, sem mótstrídir mínu hugskots løgmáli, og herleidir mig til syndarinnar løgmáls, sem er í mínum limum. Þess vegna óskadi hann sér, ad frelsast frá þessum daudlega líkama, Róm. 7.

Nei, ódaudlegleiki í þessu lífi, væri enginn velgjørníngur af Guds hendi; en þad

var

var þvílíkur velgjörníngur, sem syndugar manneskjur einúngis kunnu að æskja sér, en ecki eptir að vænta, að Guð með Krists dauða opnaði oss veg ígégnum dauðann til sælufulls ódauðlegleika. Nú gétum vér vongóðir og hughraustir á grafar-backanum undirtekið með Postulanum Páli: hvörr vill áklaga Guðs útvalda? Guð er sá, sem fríkénnir. Hvörr er sá, sem fordæmir? Kristur er sá, sem dáið hefir, já, miklu framar sá, sem upp aptur er vakinn, hvörred og er til hægri handar Guði og biður fyrir oss, Róm. 8. Hvörsu sælufull huggun! hvörsu stór von! þessi fullvissa, að Jesús er dáinn til að útvega oss lífið, hvílíka rósemi ætti hún að inngéfa oss? já, rósemi, en ecki svefn, ecki dofinleika í því að keppast eptir sáluhjálpinni; því hann útgaf sig sjálfann fyrir oss, að hann endurleysti oss frá öllu óréttlæti, og hreinsaði sér sjálfum fólk til egindóms, það kostgjæfið væri til góðra verka, Tit. 2. Já, kostgjæfna og ástundunarsama ætti þessi fullvissa að gjora oss, að Jesús með sínum dauða hefir útvegað oss lífið. Hvílíkann brennandi kjærleika ætti hún að uppvekja hjá oss til velgjörarans, til þess, fyrir Krist, forlíkaða föðurs? og þessi kjærleiki, hvílíka kostgjæfni og ástundun ætti hann að fæða af sér til dyggðanna og góðra verka, ydkunar? ef öll frelsis von væri úti fyrir oss, þá væri það ecki að undra, þó vor ástundan til þess góða hvirfi und-

undir tins og vönin, þó hugurinn biladi, og vorir kraptar dofnudu! en nú, þar hnossid blasir á móti oss, ættum vèr þá ecki ad strída og hlaupa, svo vèr gjætum nád því? eilífdin, já, sælusúll eilífd er aptur opnud fyrir oss, ættum vèr þá ecki ad keppast eptir, med dygd og heilagleika ad búa oss meir og meir undir þessa eilífd? án þessa stríds, án þessarar alvörufullu kostgjæfni, kémur Jesú pína, hans daudi og fridþæging oss ad engu gagni. Hann dó, og vèr fyrirförumst.

## XXVI. Kapituli.

### Um Endurminningar-máltíd Jesú fridþægjandi Dauda, edur þá heilögu Qvöldmáltíd.

Litlu ádur enn Jesús gèck til sinnar pínu, innsetti hann þá heilögu qvöldmáltíd, sem endurminningar-máltíd sins fridþægjandi dauda. Hann hèldt fyrst heilaga Páskalambs-máltídina med sínum lærisveinum, og þegar hún var á enda, tók hann braudid, gjördi þackir, gaf lærisveinunum þad, og sagdi: takid, etid! þetta er minn líkami. Sídan tók hann bikarinn, gjördi þackir, gaf þeim hann og sagdi: dreckid allir hèraf! því þetta er mitt blód, þess nýja sáttmála blód, sem úthellast skal fyrir marga til syndanna fyrirgéfningar, Matth. 26. Lúcas segir: ad Kristur hafi bætt því vid: ad þeir skyldu gjöra þetta i hans minning, Lúc. 22.

Það er skaði, að þessi heilaga athøfn, sem hefir svo vigtugann tilgáng, er orðin að Þrætu-epli í kristilegri kirkju, og á meðan þeir kristnu stríða um leyndardóm þessarar athafnar, hvørn þeir þó ecki géta skilið, fara þeir opt á mis við þau sáluhjálplegu not, sem þeir ættu af honum að hafa. Góður og skynsamur kristinn maður, í staðinn fyrir að hnýsast eptir því, sem hann ecki skilur, og leggja hatur á aðra, sem ecki skilja það eins og hann, gjætir hann að Jesú tilgángi með þessa stiptun, og kappkostar, að þessi góðgjarni tilgángur uppfyllist á sjálfum honum. Kristur hefir sagt: þetta er minn líkami, þetta er mitt blóð. Þetta lætur hann sér nægja, að Kristur hefir sagt það; meira þarf hann ecki að vita. Hefði hann í þessu efni þurft að vita meira, edur hefði hann gétað skilið meira hér um, þá hefði Kristur líka sagt meira. Hvørninn brauðið er Krists líkami, hvørninn vínið er hans blóð, hvørninn þessir hlutir eru sameinaðir hvørr við annann, hvar í þessi sameiníng er innifalin, þessi spursmál gjøra hann ecki órósamann; til sáluhjálplegrar nautnar þeirrar heilögu qvøldmáltíðar útheimtist ecki, að hann géti svarað uppá þau. En það ríður honum á að vita, í hvaða tilgángi sú heilaga qvøldmáltíð er innsett, og hvað hann eptir Krists tilgángi á eginlega að gjøra, svo hann géti notið hennar verðuglega, og þetta er nógu augljóst, þar um er enginn efi edur ágreiníngur.

Að-

Adurlenn eg útskýri hofud-tilgánginn, hvar-fyrir Kristur innsetti þá heilogu qvoldmáltíd, vil eg fyrst stuttlega minnast á einn auka-til-gáng, edur þó heldur afleidíng þessarar heilogu stiptunar, er Páll setur þeim fyrstu kristnu fyrir sjónir. Hann vill gjora þeim skiljanlegt, ad þeir ecki gjætu ordid hlut-takandi Heid-íngjanna offur-máltída, án þess ad játa sig opinberlega til þeirrar heidínglegu afguda þjón-ustu, og til sanninda þar um, leidir hann þeim fyrir sjónir, sumpart, ad Israelítarnir, med því ad eta af fórnunum, standi í sameiníngu vid altari Gydínganna guds-þjónustu, og þess vegna játi sig til Gydínganna kirkju og guds-þjón-ustu; sumpart, ad þeir kristnu, med því ad halda þessa heilogu máltíd, játi sig til Krists og kristilegrar kirkju. Hans ord hér um eru þessi: svo sem vid skynsama tala eg, dæmid þér hvad eg segi: sá blessunarinnar ka-leikur, hvørn vér blessum, er hann ecki sam-eining Kristí blóds? braudid, hvørt vér brjótum, er pad ecki sameining Kristí líkama? svo sem pad er eitt braud, svo er-um vér margir einn líkami. Hyggid ad þeim náttúrlegu Israelítum! munu þeir ecki, sem eta af fórnunum, vera í sameiníngu vid altarid? segi eg þar fyrir, ad Skurdgodid sé nockud, eda ad Skurdgoda-offrid sé nock-ud? en pad segi eg, ad hvad Heidíngjarnir offra, því offra þeir Afgudunum, og ecki Gudi, en eg vil ecki ad þér skud samein-

adir Afgudunum. Pèr gètid ecki druckid kaleik Drottins og Afgudanna kaleik; þèr gètid ecki hluttakandi ordid bordhalds Drottins og bordhalds Afgudanna, 1 Cor. 10. Þegar vèr athugum þessi Páls ord, þá sjáum vèr greinilega, ad nautn þeirrar heilögu qvöldmáltídar, er, eptir Postulans meiningu, medkenning Kristо, opinberleg játning, ad vèr heyrum til Krists kirkju, og erum limir þessa andlega líkama. Hvar af fylgir, bædi þad, ad enginn á ad medtakast til Guds bords, utan þeir, sem sannarlega eru limir kristilegrar kirkju, og líka ad vèr ecki ad ósekju megum halda oss frá Guds bordi; því sèum vèr Kristis tilbidjendur, og viljum álítast fyrir þad, þá eigum vèr líka med þessari athöfn ad sýna, ad vèr sèum þad; og loksins, ad allir þeir, sem ecki gánga til Guds bords, útilykja sig sjálfa frá kristilegri kirkju, og eiga ecki ad álítast, sem hennar limir.

En þetta er einúngis auka-tilgángur þeirrar heilögu qvöldmáltídar, hvern oss ber þó ad hafa fyrir augum, þá vèr gaungum til Guds bords. Höfud-tilgáng þessarar stiptunar hefir Jesús sjálfur sagt oss, þá hann innsetti hana. Sá fyrri höfud-tilgángur er þessi, ad vèr skulum halda þessa heilögu máltíd í hans minníng. Þess vegna er, sú heilaga qvöldmáltíd endurminníngar-máltíd, innsett ad sönnu til ad minnast allra Krists velgjörnínga, en sèrílagi til ad minnast á hans pínu og dauda, og þá frid-

freidþægíngu, sem hann gjørdi þar med fyrir heimsins syndir; þess vegna segir Páll: svo opt, sem þèr etid af þessu braudi og dreckid af þessum kaleik, skulud þèr kunngjøra dauda Drottins, þángad til hann kémur, 1 Cor. 11. Hvílíkar endurminníngar-máltídir hafa verid brúkanlegar á fyrri tímum, og enn þá á vorum dogum eru þær ei oldúngis aflagdar. Hvílík endurminníngar-máltíd var páska-lambid, sem var innsett til árlegrar endurminníngar þess stóra velgjorníngs, sem Gud audsýndi Israels fólki, þegar hann útleiddi þad af Ægyptalandi. Eins svo miklu vigtugri, sem sú frelsun er, sem Gud hefir veitt oss fyrir Krist, svo miklu vigtugri og hátídlegri á þessi endurminníngar-máltíd ad vera oss. Þad er naudsynlegt fyrir manneskjurnar, sem eru svo gjarnar á ad gleyma jafnvel Guds allra stærstu velgjorníngum, ad þær þess á milli séu minntar á þá sømu. Þetta er tilgángur þessarar heilogu skiptunar. Sá, sem þessvegna forsómar þessa dýrmætu endurminníngar-máltíd Krists dauda, hann géfur þar med til kynna, ad honum þyki ecki mikid koma til Jesú endurlausnar, hann lætur í ljósi þad skammarlegasta vanþacklæti fyrir Guds allrastærsta velgjorníng, sem hann hefir veitt syndugu mannkyni í dauda síns sonar.

En svo sem þad er svívirdilegt óþacklæti vid Gud og Jesúm Krist, þegar menn eru tómlátir og hyrdulausir í ad endurminnast hans

fridþægjandi dauda, þá er þó ecki sérhvør endurminníng hans fridþægjandi dauda af þeirri réttu tegund. Skuli þessi endurminníng Jesú dauda verda nytsamleg, sáluhjálpleg og samqvæm hans gjædsku-ríka og vísdóms-fulla tilgángi, þá hlýtur hún ad vera gaumgjæfileg, lifandi og ávaxtarsöm. Vid þetta tækifæri hugleidir sann-kristinn madur orsøkina til Jesú dauda, nefnilega: mannanna syndir. Í Jesú dauda sier hann, hvørsu syndirnar eru stórar og Guds réttlæti óendanlegt, sem ecki vard fridstillt utan med svo stóru offri og lausnar-gjaldi. Hann ályktar um stærd sinna synda af stærd lausnar-gjaldsins, sem fyrir þær hlaut ad útleggjast, og þessi ályktan uppvekur hjá honum heilaga hrædslu fyrir Guds réttlæti, sem krafdist þvílíks lausnargjalds til ad þyrma syndurunum; heilaga hrædslu fyrir sérhvørjum syndsamlegum þánka, sérhvørri vanheilagri girnd, sérhvørri ofsterkri gédshræríngu, sem hefdi ordid honum til fordæmíngar, ef Jesú fridþægíng hefdi ecki á milli komid. Vid þetta tækifæri hugleidir sá sann-kristni, hvørsu stórar píslir Endurlausnarinn hlaut ad lída, þegar hann var ad forlíka fyrir mannkynid; hann fylgir honum í huga sínum frá grasgardinum Gethsemane, hvar hann sveittist blódinu undir birdi alls heimsins synda, til fjallsins Golgatha, hvar hann lét sitt líf fyrir þær sömu. Hann sier, ad hann vid hvørt fótmál er högvær vid sína óvini, elskurfkur vid

sína

sína víni, undirgéfinn vilja síns föðurs, þolin-móður í sínni inn- og út-vortis pínu, og þessi sjón vitnar í hans sálu um þann innilega kjær-leika, hvar með Kristur elskaði heiminn. Við þetta tækifæri hugleiðir sá sann-kristni þær sálu-hjálplegu verkanir Jesú dauða. Hann dó, svo að vér skyldum lifa; fyrir hans dauða hof-um vér fengið frið samvitskunnar, huggun í dauðanum og djörfúng móti eilífðinni. Með hans dauða er oss opnaður inngángur ígégn-um dauðans myrkur til sælufulls ódauðlegleika; vegna hans dauða höfum vér aðgáng til náð-ar-stólsins, og megum vænta að finna þar friðstilltann föður. Þessa sáluhjálplegu ávexti Krists dauða finnur sann-kristinn maður stað-fasta og innsiglaða í sinni sálu, þegar hann nýtur þeirrar heilögu kvöldmáltíðar. Þegar hann meðtekur brauðið, finnur hann hjá sér þessa rósemdarfullu og sáluhjálplegu fullvissu: svo sannarlega, sem eg nýt þessa brauðs, svo sannarlega verð ég og hluttakandi Jesú líkama og allrar þeirrar pínu, sem hann leið á sín-um heilaga líkama, fyrir hvörrar sakir eg á að náðugann Guð og friðþægðann föður; þegar hann meðtekur vínið, finnur hann með sjálfum sér þessa huggunar-ríku fullvissu: svo sannarlega, sem eg nýt þessa víns, svo sann-arlega verð eg hluttakandi hans blóðs, og hans blóðs úthellíngar, fyrir hvörrar skuld mínar syndir eru fyrirgéfnar og mínar misgjörðir út-slettar. Af þessari sáluhjálplegu fullvissu kem-

ur fridur, huggun, gledi og rósemi aptur í samvitsku þess manns, hvors hjarta var ádur sundurknosad af lögmálsins bölvun og samvitskunnar áklögunum. Hvílík endurminníng, hvílík lífandi og gaumgæfileg endurminníng Jesú fridþægjandi dauda, hvörninn getur hún verid ávaxtarlaus? hvad skyldi hún af sér fæda í kristins manns hjarta, ef þad er ecki elska, innileg, heit og brennandi elska til Endurlausnarans aptur á móti, og þessi elska, hvorninn getur hún annad enn verid frjósöm og fædt af sér dygdugar, ágjætar og kristnum manni verdugar athafnir. Því þad mótsegir sér sjálft, ad nockur elski Krist, ef hann ecki fúslega undirkastar sig hans heilögu skipunum, ef hann ecki med gladværri hlýdni lifir eptir þeim. Þetta er þá sá fyrri tilgángur þessarar heilögu máltídar, er vér eigum fyrir augum ad hafa og um ad þenkja í hvört sinn, sem vér viljum verda hennar hlut-takandi, ad vér eigum ad halda hana til þacklætisfullrar endurminníngar Jesú fridþægjandi dauda.

Hinn annar tilgángur þeirrar heilögu qvöldmáltídar, er sá: ad vér þá eigum med hátídlegum hætti ad endurnýja þann sáttmála, sem Jesús Kristur hefir gjört á milli Guds og vor. Innsetníngar ordin eru framsærd med nockrum mismun. Mattheus framsærir þau þannig: hann tók kaleikinn, gjördi þackir, gaf þeim hann og sagdi: dreckid allir héraf! því þad er mitt blód, þess nýja sátt-

mála,

mála, hvørt ed fyrir marga mun úthellast til syndanna fyrirgéfningar, Matth. 26. Lúcas hefir þau þannig: hann tók kaleikinn og sagdi: þessi kaleikur er nýr sáttmáli fyrir mitt blód, sem fyrir ydur verdur úthellt, Lúc. 22. Og nærstum því eins framfærir Postulinn Páll þau, 1 Cor. 11. Þessi litli mismunur á ordunum gjørir enga verulega umbreytíngu í sjálfri meiníngunni. Svo mikid sjáum vér augljóslega, ad Kristur talar hér um sáttmála, þvílíkann sáttmála, sem hann med sínu blódi, þad er, med sínum dauda, ætladi ad gjøra á milli Guds og vor. Kristur kallar þennann kaleik nýjann sáttmála í sínu blódi, edur fyrir sitt blód, og lítur þar med til þess gamla sáttmála, sem Gud gjørdi fyrr meir vid Jsraels fólk fyrir Mósis medalgaungu. Þegar Gud vildi gjøra sáttmála vid sitt fólk, þá slátradi Móses nockrum dýrum til ad offra, sídan las hann fyrir fólkinu sáttmáls-bókina, og þegar allt fólkid hafdi svarad: vér viljum gjøra allt þad, sem Drottinn hefir bodid og vera honum hlýdnir, þá støckti hann offurdýranna blódi á fólkid og sagdi: sjáid! þetta er blód sáttmálans, hvørn Drottinn hefir gjørt vid ydur yfir øllum þessum ordum, 2 Mós. b. 24. Nú segir Kristur: þessi kaleikur er nýr sáttmáli fyrir mitt blód, sem fyrir ydur úthellist. Þad er audsjed, ad hann med þessum ordum lítur til þess gamla sáttmála, sem Gud gjørdi vid sitt fólk,

 fyrir

fyrir Mósis medalgaungu; og þess vegna, þeg-ar vér gaungum til þeirrar heilögu qvöldmáls-tídar, þá endurnýjum vér vid Gud þann sátt-mála, sem í Jesú dauda gjördist milli Guds og manna. Skilmálarnir í þeim gamla sátt-mála vóru þessir: gjör þad, og muntú lifa. Skilmálarnir í þeim nýja sáttmála eru þessir: trú þú á Kristum, svo skalt þú verda sálu-hólpinn; en þín trú á ad vera kroptug fyrir kjærleikann, frjófsöm af dygdugum og gódum verkum, er sæma kristnum manni. Þetta eru þau heit, sem vér gjörum Gudi, þegar vér gaungum til Drottins qvöldmáltídar, þetta er sá sáttmáli, sem vér inngaungum vid Gud, þvílíkur sáttmáli, sem er alleins vigtugur, alleins heilagur og hátídlegur, sem sá, er Is-raels fólk gjördi fordum vid hann. Ad vísu ættum vér á hvörjum degi ad endurnýja þenn-ann sáttmála vid Gud, á hvörjum morgni ættum vér ad gjöra Drottni heit, heit elskunn-ar, heit trygdarinnar, heit þacklætisins; en viss-ir dagar eru oss vigtugri og minnisstædari enn adrir; og hvörsu vigtugir og minnisstædir eru þá þeir dagar, á hvörjum vér gaungum til Drottins qvöldmáltídar, hvörsu vigtugur og minnisstædur ætti oss ad vera sá sáttmáli, sem vér á þessum dögum endurnýjum vid Gud, og þad loford, sem vér gjörum honum, þad loford, sem vér gjörum fyrir Guds alsjáanda augliti, og í hans helgidómi, hvar hann hefir lofad med sérdeilislegum hætti ad vera nálæg-

ur; Það loford, sem vér stadfestum og innsiglum med blódi Þess nyja sáttmála; Það loford, sem vér gjörum í augsýn vorra samkristinna medbrædra, sem hér á jördunni eru vitni til, ad vér höfum gjört Það, og á sídarsta degi géta vitnad á móti oss, ef vér rjúfum Það af ásettu rádi. Hættulegt er ad gjöra Gudi Þetta loford, ef vér ecki höfum einlægann ásetníng til ad halda Það. Ef vér af ásettu rádi bregdum út af Þessu lofordi, Þá höfum vér enga huggun af Þeirri heilögu qvöldmáltíd, og Jesú fridÞægjandi daudi verdur oss ad engum notum; vér förum á mis vid Þá sælu, sem hann hefir oss afrekad, og bætum Því ofaná allar vorar adrar syndir, ad vér verdum meinsæris-menn vid Drottinn vorn Gud.

* * * * * *

Pared Það er svo vigtugt og mikilvægt áform, ad halda Þessa heilögu endurminningar-máltíd Jesú dauda, Þá er Það ei heldur án orsaka, ad hinn heilagi Páll gaf Þeim fyrstu kristnu Þessa áminníngu: hvörr madur prófi sig sjálfur, og eti svo af Þessu braudi og drecki svo af Þessum kaleik, 1 Cor. 11. Avur enn kristinn madur vogar ad gánga til Guds bords, ber honum fyrst í kyrrd og ró, ad ransaka sinn evangelíska verdugleika til Þessarar heilögu máltídar, og í nákvæmasta máta ransaka sitt hjarta, hvört Það er svo ásigkomid, og hvört Það hefir Þá eginlegleika til ad bera,

 sem

sem Kristur heimtar af sínum verdugu bordgéstum.

Kristins manns evangeliski verdugleiki er engannveginn innifalinn í hans gódverkum, hvørsu álitleg, sem þau kunna ad sýnast, eru þó sumpart ófullkomin, sumpart einúngis skyldu-verk, og kunnum vér því ecki ad vinna tilneins góds med þeim, þó þau væru fullkomin, og í því lagi, sem Guds lögmál áskilur, hvad þá miklu sídur þar þau brestur svo mikid uppá þad. Þegar þér, segir Kristur, hafid gjørt allt þad, sem ydur var bodid, þá segid: vér erum ónýtir þjónar; því vér gjørdum einúngis þad, sem oss bar ad gjøra, Lúc. 17. Ei heldur er þessi verdugleiki innifalinn í vissum útvortis undirbúníngi. Vér megum ei hugsa, ad vér séum verdugir bordgéstir vid Herrans bord fyrir þad, þó vér nockra daga ádur enn vér medtokum þessa heilögu máltíd, lesum, sýngjum eda bidjum nockud meir enn vér erum annars vanir. Sá ógudlegi gétur hermt allt þetta eptir, án þess ad betrast vid þad, og þess vegna einnig án sannarlegs verdugleika.

En á hina sídunu eigum vér ei heldur ad hugsa, ad vér séum óverdugir bordgéstir, þó vér ecki finnum hjá oss neitt sérlegt andlegt húngur og þorsta eptir þessari heilögu máltíd. Þann besta kristinn mann vantar opt þessa eptirlaungun, þad er Guds velgjørníngur ad hafa hana; en þad er þó engin roksemd uppá óverdugleika, þó menn vanti hana.

Opt

sína egin og finna Postula guddómlegu sendíngu.

Þad er óſkynsamlegt, ad vilja spyrja, hvørt hvílik krapta-verk séu naudsynleg trúarbrøgdunum til stadfestíngar? Því þar þau hafa ſkéd, þá þurfum vér ecki fleiri røksemdir uppá, ad þau hljóta ad vera naudsynleg; hefdi þetta medal ecki verid naudsynlegt, þá hefdi Guds vísdómur ecki heldur útvalid þad. Svo mikid ſjáum vér af reynslunni, ad þetta medal var hentugt og ánægjanlegt, til ad framqvæma þad, sem þad var tilætlad, og ad þad þess vegna var verdugt þeim ædsta vísdómi. Gydíngar vóru svo lyndtir, ad þeir ecki vildu medtaka neinn lærdóm fyrir gudlegann, þegar hann ecki var stadfestur med krapta-verkum, hvar fyrir Kristur segir: þegar þér ecki ſjáid teikn og stórmerki, þá trúid þér ecki. Og þess vegna, ef Jesú trúarbrøgd ſkyldu fá inngáng hjá þessu hardsvírada fólki, þá hlutu þeim ad fylgja þvílíkar røksemdir, er þeir álitu gyldar. Manneſkjurnar vóru líka í þær mundir, eins og þær eru enn þá, bædi Gydíngar og Heidíngjar, ad þær framar stjórnudust af ſkilníngar-vitunum heldur enn ſkynseminni, þær hlutu þess vegna ad fá þær røksemdir, sem ſkilníngarvitin gengust fyrir. Hefdu þeir átt fyrst ad ransaka alla trúarbragdanna lærdóma eptir ſkynseminnar leidarvísir, ádur enn þeir høfnudu þeirra forfedra átrúnadi og medtóku Jesú trúarbrøgd, hvørsu margir mundu þeir þá hafa

ordid

ordid, er hefdu tekid þessa trú? hvorsu fáir eru þeir af alþýdu, er hafa tíma til ad leggja sig eptir slíkum ransóknum? og þó þeir hefdu tíma, hvorsu margir eru færir til þess? og þó þeir væru færir til þess, hvorsu margir hafa lyst og nenníngu til ad taka sér fyrir hendur slíka eptirgrenslun, sem er svo torveld og svo mædusom? ad eg ecki tali um, ad ógrundadar meiníngar, sem menn hafa í uppeldinu inndruckid, eru hjá flestum full-sterkar til, ad glepja sjónir fyrir þeirri bestu og skorpustu skynsemi, jafnvel þó hana hvorki bristi tíma, krapta né lyst til ad grenslast eptir sannleikanum. Ef ad Jesús og hans Postular hefdu einúngis med skynsamlegum fortolum átt ad ryðja trúarbrogdunum veg hjá Gydíngum og Heidíngjum, þá mundu þau ecki hafa komist lángt. Aldrei hafa nein ný trúarbrogd med þessum hætti útbreidst um heiminn, og aldrei mundu þau géta útbreidst med þessum hætti, þar minnsti partur af manneskjunum er fær um ad taka á móti skynsamlegum fortolum, sérdeilis þegar skynsemin á í hoggi vid inngrónar meiníngar. Krapta-verk eru þarámóti hentug til þessa, þar þau tala til skilníngar-vitanna og skynseminnar undir eins; sá einfaldasti gétur ályktad þannig, án þess hann þurfi ad mæda sig med lángri ransókn: þessi madur gjorir þau verk, sem yfirgánga náttúrunnar og alla mannlega krapta, og sem einúngis kunna ad gjorast af Guds almættis-krapti, hvored gétur

skip-

ſkipad náttúrunni og umbreytt hennar løgum, þar hún er hans ſképna; þeſs vegna er Gud í verki med þeſſum Lærimeiſtara; þeſs vegna hljóta hans lærdómar ad vera gudleg ſannindi; því ſú ædſta vera gétur ecki verid í verki med neinum ſvikara, gétur ecki ſtyrkt ſvikarann med ſinu almætti, og ſteypt þar med ſinum ſkynſemdarfullu ſképnum í óumflýjanlega villu. Þeſſi álytan er ſkynſamleg, hún er ſkiljanleg, allt eins audveld fyrir Bóndann, ſem Heimsſpekínginn. Reynſlan ſýnir einninn ad þetta medal var bædi hentugt og ánægjanlegt til ad ebla þann tilgáng, ſem þad var brúkad til, og meira þarf ecki til ad réttlæta Guds vísdóm í þeſſu efni.

Vér ſjáum nú orſokina, hvar fyrir Poſtularnir, ſem vóru ætladir til ad innleida þau kriſtilegu trúarbrögd medal Gydínga og Heidíngja, vóru, eins og fordum Móſes og Spámennirnir, útbúnir med krapta-verka-gáfu, og hvar fyrir krapta-verkin vóru þad innſigli, ſem Guds almætti þrykti á ſin himneſku ſannindi. Og ad þeir hafi gjørt þvílík verk, þar um er allt eins lítill efi, ſem um Jeſú Kriſts kraptaverk. Kriſtur lófadi þeim ecki einúngis ſkømmu ádur enn hann ſkildi vid þá, ad þeir ſkyldu ødlaſt þvílíkar gáfur: þeſſi eru þau kraptaverk, ſegir hann, ſem þeir trúudu munu gjøra: í mínu nafni munu þeir útreka anda, tala framandi túngur, taka upp høggorma, og, ef þeir drecka nockud banvænt, ſkal

skal það þeim ecki granda; yfir sjúka munu þeir hendur leggja, og þá mun þeim batna, Marc. 16. Heldur kénnir frásagan oss, að þetta loforð hafi vissulega uppfyllst. Vér hösum að vísu ecki margar frásagnir um krapta-verk Postulanna og þeirra fyrstu kristnu; en vér hösum þó svo margar, sem oss nægja til sannfæríngar. Eg vil ecki tala um, að Páll, í sínu Sendi-bréfi til safnaðarins í Corinthu-borg, vitnar opinberlega til þessara krapta-verka-gáfna, hvar með margir í sösnuðinum vóru útbúnir, 1 Cor. 12; hvað hann ecki hefði vogað, ef þær ecki hefðu sannarlega verið til. Eg vil ei heldur tala um, að oss væri það öldúngis óskiljanlegt, hvörninn Jesú Postular, þessir lítilmótlegu og einföldu menn, hefðu gétað, án þess að vera styrktir af þessu meðali, hast svo stórann framgáng bæði á meðal Gyðínga og Heiðíngja, þar svo margar og sterkar hindranir settu sig þó á móti þeirra viðleitni, að útbreiða sannleikann. En Lúcas framfærir einnig í Postula-sögunum aðskiljanleg eptirdæmi þessara krapta-verka. Þannig læknaði Pétur með einni einustu skipun þann mann, sem hrumur hafði verið frá móður-lífi, og hlaut að berast af öðrum, svo að hann á sama auga-bragði stóð upp og géck, Post. 3 k. 3. Þannig datt Ananías, og síðan kona hans Sapphira dauð niður fyrir fætur Péturs, Post. 5. k. 5. Þannig læknaði hann í Lydda einúngis með einu orði mann,

ad nafni Æneas, sem í átta ár hafdi verid sængur-liggjandi og limafalls-siúkur, Post. g. b. 9. Þannig uppvakti hann í Joppe frá daudum konu nockra, ad nafni Tabítha, Post. g. b. 9.

Þessa atburdi uppteiknar Sagnaskrifarinn med þeirri náqvæmni, sem vitnar um þad góda málefni, og ad hann var sannfærdur um sannleikann. Hann segir frá þessu, svo sem um þær persónur, er vóru alkénndar, hann tilgreinir bædi nöfn þeirra, á hvorjum þessi krapta-verk skédu, og líka stadinn, hvar þau skédu. Svo náqvæmlega skrifar ecki sá, sem samansetur lýgi; hann skrifadi þessa frásögu um Postulanna gjorníngа herum 30 árum eptir Krists himna-för, þá margir af þeim gátu enn þá verid á lífi, sem höfdu verid sjónar-vottar þeirra atburda er hann frá segir. Hvornin mundi hafa farid, ef hans Theophilus, hvorjum hann tilskrifadi þessa bók, hefdi fyrirspurt sig um þessa atburdi á þeim stödum, sem hér eru tilgreindir, og honum hefdi verid svarad: ad Pétur hefdi engann krypling læknad fyrir musteris-dyrunum; ad enginn Ananías edur Sapphira hefdu fallid daud nidur fyrir hans fætur; ad enginn, ad nafni Æneas, hefdi verid læknadur af honum; ad engin kona, ad nafni Tabítha, hefdi verid af honum uppvakin frá daudum; fyrir hvílíku spotti mundi Lúcas þá hafa ordid, og hvörsu ósigrvinnanlegar hindranir hefdi hann þá lagt í veginn

fyrir

fyrir treklarbrøgdin, er einúngis kynnu ad vid- haldast med ósønnum fráságnum. Og ef vèr høfum orsøk til ad trúa sannleika þessara frá- sagna, þá kunnum vèr ei heldur ad efast um þann guddómlega krapt, sem framqvæmdi þessi verk; því ad lækna þann einúngis med einu ordi á auga-bragdi, sem hrumur hafdi verid frá módurlífi, og þann, sem í 8 ár hafdi ver- id limafalls-sjúkur og legid í kør, þad mun enginn skynsamur állita fyrir náttúrunnar egid verk.

Þad er satt, ad þegar vèr tølum um Postulanna krapta-verk, þá viljum vèr ecki segja þar med, ad þeir hafi gjørt þessi krapta- verk af eginn mætti, eins og Jesús Kristur. Sèrhvørt krapta-verk er umbreyting í nátt- úrunni, sem yfirgengur alla náttúrunnar krapta, og einúngis kann ad framqvæmast af Guds almætti; en Skaparinn kann ecki ad meddeila neinni endanlegri skèpnu sitt almætti; ad vera endanlegur, og þó almáttugur, mótsegir sèr sjálft. Þess vegna, þegar sagt er um Postul- ana, ad þeir hafi gjørt krapta-verk, þá á þad svo ad skiljast, ad Gud hafi sameinad sitt al- mætti vid þeirra útvortis athafnir; þeir vóru ecki sjálfir krapta-verka gjørendur, heldur ein- úngis medals-persónur vid hvílik krapta-verk; þar fyrir tilreikna þeir aldrei sjálfum sèr þessi verk. Þess vegna sagdi Pètur, þá hann hafdi læknad þann fyrir musteris-dyrunum, sem hrum- ur hafdi verid frá módurlífi: þèr Israels

 menn!

menn! hvar fyrir undrist þér yfir þessu? edur hvar fyrir starid þér á oss, eins og vér af eginn krapti edur heilagleika hefdum gjørt þennann gángandi. Abrahams og Isaaks og Jacobs Gud, vorra fedra Gud hefir auglýst sinn Son Jesúm, hvørn þér ofurseldud og afneitudud fyrir Pilató, þá hann frikénndi hann. Þér afneitudud þeim heilaga og rèttláta, og beiddust ad manndráparinn skyldi ydur gèfast; en lífsins høfdíngja aflífudud þér, hvørn Gud hefir uppvakid frá daudum, þar erum vér vottar ad. Og fyrir trúna á hans krapt, hefir hans kraptur styrkt þennann, hvørn þér sjáid og þeckid, Post. g. b. 3. Eins þegar Pétur læknadi þann limafallssjúka Æneam, taladi hann þannig til hans: Ænea! Jesús Kristur gjøri þig heilbrygdann, statt upp og búdu um rúmid þitt, Post. g. b. 9.

Postularnir tilreiknudu þess vegna ecki þeirra krapta-verk þeirra eginn, heldur Guds krapti, sem var í verkinu med þeim; og þar Guds kraptur verkadi med þeim, þá eru þessi dásemdar-verk einnig ánægjanleg roksemd uppá sannleika þeirra trúarbragda; sem þeir hafa bodad heiminum. Adal-tilgángur Postulanna krapta-verka var enginn annar enn sá, ad þeir vildu opna lærdóminum inngáng í tilheyrendanna hjørtu, koma þeim til ad trúa þeirra kénníngum og sannfæra um þeirra guddóm-

legu

legu sendíngu. Þar fyrir vitnudu þeir ætíd til þeirra krapta-verka, þau vóru þad guddómlega innsigli, sem þeir þryktu á þeirra lærdóma til merkis, ad þeir væru af himnum komnir. Eg vil gjöra vid, ad þeirra lærdómar ecki hefdu verid guddómlegir, ecki verid himneskir, þá hefdu þeir verid svikarar, sem med raungum framburdi hefdu eingúngis leitast vid ad pretta heiminn, og þad med því medali, hvar med hann naudsynlega hlaut ad prettast. Kunni Gud þá ad vera í verki med þvílíkum svikurum? kunni hann ad ljá þeim sitt almætti til ad framqvæma svo ógudlegann tilgáng, hvar med étal manneskjur med ómótstædilegum hætti nidursteyptust í villu? hvada þánka mundum vér þá géta gjört oss um hans heilagleika, gædsku og kjærleika? edur þó þeir hefdu ecki verid svikarar, þó þeir sjálfir hefdu álitid þeirra villu fyrir sannleika, og í bestu meiníngu leitast vid ad útbreida hana, þá hefdi þad samt engu ad sídur verid villa, og hvornin hefdi þá sá ædsta vera, uppspretta alls sannleika, kunnad med sínu almætti, ad þryckja sínu innsigli á þessa villu, og géfa þar med mannlegum draumum álit himneskra sannindа? þetta er svo fráleitt, ad vér án þess ad útlista þessa röksemd meira, kunnum strax ad gjöra þá óhultu og óyggjanlegu ályktun, ad þar Postulanna krapta-verk vóru guddómleg, þá hljóta líka allir þeirra lærdómar ad vera guddómlegir; því þeirra lærdómar og þeirra krapta-verk vóru svo

 ná-

náqvæmlega sameinud, ad annadhvört hlýtur hvorttveggja ad vera ósatt og uppdiktad, ellegar hvorttveggja hlýtur ad vera satt og himneskt.

* * * * * * *

Hared Gud hefir látid sér svo annt og umhugad vera ad rótfesta og útbreida trúarbrøgdin, þá sjáum vér þar af, hvorsu vigtug og naudsynleg þau hljóta ad vera fyrir manneskjurnar, þar sá alvísi Gud hefir svo opt raskad náttúrunnar ordu og þeim løgum, sem hann hefir henni sett, til ad sannfæra heiminn um þeirra guddómlega uppruna, hvorsu vigtug hljóta trúarbrøgdin þá ad vera, og hvorsu straffs-verdir erum vér, þegar vér ecki brúkum þessa himnesku gáfu eptir gjafarans tilgángi, edur høfum hana ecki um hønd med þeirri virdíngu og lotníngu, sem svo guddómleg sannindi af oss heimta?

Ef vér ecki viljum medtaka þær røksemdir, sem ádur eru gésnar til trúarbragdanna stadfestíngar, þá kunnum vér ecki ad vænta fleiri. Þad væri ofdyrfska ad vilja heimta þær, og merki til þess, ad vér ecki þeckjum vísdóm þeirrar ædstu veru, ef vér ætlumst til þeirra. Eptir sínum vísdómi kann Gud ecki ad framqvæma neitt medals-laust, þar sem ánægjanleg medøl eru til ad ebla hans tilgáng. Ný krapta-verk, trúarbrøgdunum til styrkíngar, væru á vorum døgum ónaudsynleg; þar þau eru studd af svo morgum røksemdum, ad þau

ꝫ øllu

í ǫllu tilliti eru verd ad medtakast af hvǫrjum skynsǫmum manni, sem ecki er blindadur af illgyrni edur inngrónum raungum meiníngum. Þau krapta-verk, sem ádur hafa gjǫrd verid, hafa enn þá þann sama krapt til ad sannfæra skilnínginn, þar þau eru í rit færd af þeim mǫnnum, sem hafa ǫll kénnimerki til þess, ad þeir segi satt. Vér þurfum þess vegna ecki vid nýrra kraptaverka til ad sannfærast; hér á þad heima, sem Kristur segir: ef þeir ecki hlýda Mósi og Spámǫnnunum, þá mundu þeir ecki heldur trúa, þó nockurr uppristi frá daudum, Lúc. 16. Vér megum þess vegna maklega álíta alla þá fyrir svikara, sem enn nú tala um ný krapta-verk til trúarbragdanna stadfestíngar, þar vér vitum, ad Gud, eptir sínum vísdómi, ecki kann ad gjǫra neitt ónaudsynlegt, edur ad þarfleysu raska náttúrunnar ordu og hennar lǫgum. Ad þenkja ǫdruvísi er ecki trú, heldur hjá-trú.

Þad er ecki sídur hjá-trú, þegar vér í vorum tímanlegum efnum væntum krapta-verka, í stadinn fyrir ad brúka þau náttúrlegu medǫl, sem Gud hefir oss í hendur fengid. Þegar vér t. d.: til ad afvenda einhvǫrju illu, grípum til þeirra medala, sem í sjálfum sér ecki hafa neinn krapt til ad koma því til vegar, sem vér brúkum þau til. Sérhvǫr verkan hlýtur ad hafa orsǫk, og þessi orsǫk hlýtur ad vera ánægjanleg til ad framleida þá verkun, sem til er ætlad. Ad viss gras, þeg-

ar

ar þau eru brûkud, gêti ſkadad manneſkjuna, ad onnur gêti læknad hana, þad gêt eg ſkil-id, þó eg ecki gloggt ſjái, hvorninn þau verka; enn þad gêt eg ei ſkilid, hvorninn viſs ord edur látædi, gêta gjort manni nockud illt, ed-ur frîjad hann frá því; eg ſkilſmiklu framar, ad þvílíkt er ecki mogulegt, því eg finn eckért ſamanhengi á milli orſakarinnar og verkunar-innar. Ad hugſa, ad látædi, ord, óſkir, bleſſ-an edur bolbænir dragi nockra verkun eptir ſig, er hjá-trú.

Ef vér viljum vera óhultir fyrir þeſſari ſaurgun, ſem er ſvo vanvirduleg fyrir vora vitsmuni, og ſvo ſkadleg fyrir vort hugar-far, þá hljótum vér ad koſta kapps um ad þeckja náttúruna og hennar krapta. Þetta þeckings-arleyſi var þad, ſem á fyrri tímum gat af ſér hjátrúna. Þeſs vegna héldu menn, ad hala-ſtjornur bodudu ſtórar land-plágur, og mein-lauſar lopt-ſjónir væru himinſins reidi-teikn; þeſs vegna gjordu menn ſér í lund, ad margt hvad hefdi heimuglega og yfirnáttúr-lega krapta, ſem þó verkadi oldúngis náttúrlega; þeſs vegna héldu menn allt þad yfirnáttúrlegt, ſem menn ecki gátu ſtrax ſkilid. Vilji madur þeſs vegna vakta ſig fyrir þeſſari hjátrú, þá hlýtur madur ad læra ad þeckja náttúrunnar krapta, og því betur vér þeckjum þá, því hægra munum vér ega med ad ſjá, ad all-margt, ſem vorir forfedur hafa álitid yfirnátt-úrlegt, hefir oldúngis náttúrlegar orſakir; en aldrei

aldrei munum vér komast svo langt í náttúruspekinni, að Jesú og hans Postula kraptaverk verdi útskírd af náttúrlegum rökum. Þessi verk eru oss enn þá allt eins óskiljanleg, sem þau vóru þeim, er á þau horfdu, jafnvel þó vér séum miklu lengra áleidis komnir í þeckíngu náttúrunnar.

En skuli þessi hjá-trú nockurn tíma upprætast, þá hlýtur það að byrjast í úngdæminu, þá hljóta menn að hafa vakandi auga yfir því, að þetta eitur ecki smeygi sér inn í sálina á medan hún er enn þá ofveik til að standa á móti þess skadlegu verkunum. Ungling ar mega ei heyra neinar frásögur um vofur, drauga, galdra, drauma edur þesshattar. Börnunum þykir ætíd gaman að heyra þesshattar hluti; þeir festa djúpar rætur í hugskotinu og verda óútslettanlegir. Þegar skynsemin seinna meir er búin að ná fullum þroska, þá verdur madur annadhvort fastheldinn við þær skadlegu meiningar, sem madur hefir fyrst inndruckid, edur madur, til að losa sig við þessi skammarlegu fjøtur, fellur allt í einu frá hjá-trú til vantrúar, og trúir nú engum hlut framar, þar hann ádur trúdi øllum hlutum.

## XXXII. Kapítuli.

### Um Postulanna Píslarvætti.

Menn framfæra almennt Postulanna píslarvættis dauda, sem røksemd uppá trúarbragd-

anna guddómlega sannleika, og þessi røksemd er grundud, þegar hún er rétt brúkud. En ádur enn vér brúkum hana, hljótum vér fyrst ad gjøra skil fyrir því, ad Jesú Postular hafi verid sannir píslar-vóttar; því opt finnast bædi sannir og falskir píslar-vottar. Heidíngjarnir hafa einnig haft þeirra píslarvotta; þau sønnu trúarbrøgd hafa einnig haft þvílíka, sem ecki kunna ad reiknast á medal þeirra sønnu. En þó þar finnist falskir píslar-vóttar, þá fylgir ecki þar af, ad allir séu þad; þó nockrir hafi géfid út þeirra líf vegna villunnar, þá fylgir ecki þar af, ad Kénnendanna píslarvættis daudi géti aldrei verid gyld røksemd uppá lærdómsins sannleika. Þar finnast kénniteikn, med hvørjum þeir sønnu og falsku píslarvottar verda adgreindir hvørr frá ødrum, og þessi kénniteikn vil eg fyrst framsetja.

Þad er mogulegt ad leggja lífid í sølurnar til ad forsvara villuna, þegar menn hafa þá von, ad þeirra nafn múni æfinlega uppi vera hjá eptirkomendunum vegna slíks hetjulegs dauda. Uppá þvílíka píslar-votta, ef þeir annars forþéna þetta nafn, hafa menn nóg dæmi, einnig medal heidinna manna, og ecki þarf ad undrast yfir, þó þvílík dæmi finnist; þegar menn á adra sídunna adgæta þá heldslegu þánka, sem þeir gjørdu sér um þad eptirkomanda líf, og á hina sídunna þan lofstýr, sem þeir þar med útvegudu sér hjá þeim eptirlifandi. Þeim veitti ecki svo torveldt, ad þola

Þola fárra augna-blika qvalir til að ná tveimur svo tillockandi augna-midum, af hvörjum einúngis annað gat náðst með náttúrlegum dauda.

Það er mögulegt, að uppeldis hleypi-dómar géti útbrynjað mann með hugar-hreysti til að deyja fyrir óskonn trúarbrögð. Allir vita hvaða makt þessir hleypidómar hafa yfir mannsins skynsemi. Þau trúarbrögð, sem vorir forfedur hafa haft, og hvör vér lika sem höfum inndruckið með móður-mjólkinni, þau álitum vér optast fyrir sönn, án þess að prófa þau. Vér finnum þess vegna ecki allfáa, sem heldur hafa lagt lífið í sölurnar, enn afneita þeirra forfedra trúarbrögdum, í þeirri von, að þetta mundi þeim í hinu ödru lífi verda ríkuglega endurgoldið, og þvílíka finnum vér medal Indíanískra, Mahómetiskra, allt eins vel, sem á medal Kristinna.

Loksins kann sá svo kalladi Enthúsiasmus að veru uppsprettan til þess hetju-móðs, með hvörjum madur, jafnvel fyrir raung trúarbrögð, kann að leggja líf sitt í sölurnar. Þessi sinnis-veiki, hvöred til adgreiníngar frá annari af sömu tegund, kann að kallast sál-andlegi edur trúarbragdanna Enthúsiasmus, er þar í innifalinn, að madur ímindar sér, að Gud verki yfirnáttúrlega med honum og í honum. Heitur og upptendradur ímindunar-kraptur málar fyrir hans augum missýníngar, inngéfur honum, eptir hans meiníngu, opinberanir, ósidvanalegar, gladar hugar-hræríngar,

 hvör-

hverjar hann álítur fyrir himneska, sterka og ómótstædilega uppvatning, til ad tala edur gjöra eitthvad frábrugdid. Því þægilegri, sem þessar ímyndunar-kraptarins verkanir eru, þess stærri verdur laungunin eptir þeim, og því meir, sem laungunin eptir þeim vex, þess meira aukast þær. Menn virda þessar sjónir svo lengi fyrir sér í huganum med lyst og ánægju; menn endurnýja svo opt þánkann um þær, ad þær magnast meir og meir, og loksins efumst vér ecki um, ad allt sé svo í raun og veru, sem oss sýnist. Af þvílíkum spilltum ímyndunar-krapti kann manneskjan, sérílagi þegar aungra eptirdæmi hjálpa til, audveldlega ad leidast til þess, ad hún lídur heldur þær grimmustu qvalir, enn ad hún medkenni ad þessar sjónir séu heimska.

Þessar eru orsakirnar til þess falska píslarvættis-dauda, stollt, edur rángar meiníngar í uppeldinu inndrucknar, edur Enthúsiasmus. Eg vil ecki neita, ad bædi á fyrri og seinni tímum hafi verid margir kristnir, sem tilknúdir af einni edur annari af þessum orsökum, hafa fúsir og gladir lagt lífid í sölurnar, til ad gánga ecki frá trú sinni. En kunnum vér ad gèta þessa til um alla? kunnum vér med nockrum rökum ad gèta þess til um Jesú Postula? og þeir eru þad eingöngis, sem eg hér um tala. Oss má rída á litlu, hvad alla adra kristna hefir dregid til ad deyja fyrir þeirra trúarbrögd, þegar vér einúngis erum sannfærd-
ir

ir um, ad uppsprettan til Postulanna píslarvættis dauda, hefir verid hrein og ómeingud.

Hjá Jesú Postulum var þad ecki stollt, ecki tillockandi von um ad gjøra þeirra nafn ódaudlegt hjá eptirkomendunum, sem kom þeim til ad géfa út þeirra líf fyrir þau trúarbrøgd, sem þeir bodudu heiminum. Þad gétum vér skilid, ad þeir menn, sem med þeirra lærdómi hafa útvegad sér stórt nafn í verøldinni, kunni ad ætlast til ad géfa þeirra áliti enn þá fegri glansa hjá eptirkomendunum, þegar þeir med hetjulegum dauda innsigla þeirra lærdóm, og heldur vilja láta lífid enn lærdóminn; en fyrir Jesú Postulum var því ecki þannig varid. Þeir bodudu Krist, fyrir hvørs nafns sakir þeir vóru ofsóktir af Gydingum, og hæddir af Heidingjum. Páll játar: ad þeir fyrir Krists sakir væru ordnir ad skodunar-spili fyrir heiminum, fyrir englum og mønnum, ad þeir væru ordnir eins og skarn í heiminum, og allra skó-þurka, 1 Cor. 4. Hvørninn gátu þeir þá vænt, ad þeir mundu útvega sér stórt nafn í verøldinni, þó þeir dæu fyrir þann lærdóm, sem var foraktadur? Því, þó þeir undir bødulsshendinni mistu lífid, eins og óbóta-menn, þá gat þad ecki gjort þeirra dauda æruverdari á medal mannanna, heldur enn þeirra líf var. Þar þeir vóru foraktadir í lífinu, hvørsu miklu framar hlutu þeir ad vera þad í daudanum?

Allir vita og, að trúarbragðanna og upp-eldisins hleypidómar hafa allt eins lítið verið orsök til þeirrar hugprýði, með hvorri þeir gengu út í dauðann fyrir þeirra trúarbrögð. Þetta kynni máské að segjast um nockra af þeim píslar-vottum, sem á annari og þriðju öld létu lífið vegna trúarbragðanna, hvorjir fæddir vóru af kristnum foreldrum; hér kynnu uppeldis hleypidómar máské að hafa gjört mik-ið að verkum. En þetta kann ecki að segjast um Jesú Postula. Þeir vóru uppaldir í þeim trúarbrögðum, sem vóru þeim kristilegu old-úngis gagnstæð; þeir dóu ecki fyrir þeirra for-feðra trúarbrögð, heldur fyrir annarleg. Þeir lögðu fyrst niður þeirra gömlu og af þeirra elli æruverðu trúarbrögð, til að taka á móti Jesú Krists trúarbrögðum, og síðan lögðu þeir lífið út fyrir þessi nýju, sem þeir höfðu meðtekið.

Ecki heldur getum vér leidt oss í hug, að blindur ákafi hafi verkað hjá þessum trúar-bragðanna hetjum. Vér finnum ecki hjá Post-ulunum þá eginlegleika, sem vanir eru að fylgja þessari sinnis-hræríngu; að þessi sinnis-veiki hafi hjá sumum á seinni tímum gjört meira að verkum enn grunduð sannfæríng, þar á er enginn efi; þess vegna finnum vér í sagna-bókunum, að sumir, sem af rasandi ráði hlupu sjálfir út í dauðann, stóðust ecki píslirn-ar, heldur spottuðu sannleikann, og afneituðu þeirra trúarbrögðum til að frelsa lífið. Hjá Jesú

Jesú Postulum finnum vèr þad ecki. Sá, sem hefir þessar heila-grillur, álítur þær fyrir guðlegar opinberanir; og þessar grillur eru allt eins heimskulegar og fráleitar, sem ímindunar-krapturinn, er gétur þær af sér. En hvada breglu finnum vér í þenkíngar-hætti Jesú Postula, sem géfur til kynna, ad þeir hafi verid haldnir af slíkum heila-grillum? aldrei munum vèr géta komid med einúngis einn af þeirra lærdómum, sem med réttu kann ad álítast, sem afsqvæmi aflagads ímindunar-kraptar. Þegar þeir framsetja trúarinnar lærdóma, þá er þeirra kenníng greinileg og sannfærandi; þegar þeir tala um lífernis skyldurnar, þá heimta þeir eckért meira af manneskjunum, heldur enn samqvæmt er skynsemi, samvitsku og gódum sidum, og þeirra krøfur eru bygdar á sønnum grundvelli; þegar þeir segja frá Krists dásemdarverkum, þá skrifa þeir tilgjerdar- og vidhafnar-laust. Hvorki þeirra lærdómur nè lærdóms-máti géfur þess vegna til kynna neitt þad, sem finnst hiá enthúsiastiskum manni. Svo sem Enthúsiastinn er trubladur í skilníngimum, svo er hans hjartalag ecki heldur betra, brádlyndur í gedsmunum sínum, hefndargjarn vid óvini sína, beiskluntadur vid alla þá, sem ecki vilja fallast á hans meiníngar. Hjá Jesú Postulum finnum vèr gagnstædann þenkíngar-hátt. Þeir neyddu ecki þeirra tilheyrendur til ad medtaka þeirra lærdóm, þeir heimtudu miklu framar, ad þeir skyldu prófa hann,

hann, ádur enn þeir medtæki hann; í allri sinni hegdun vid þeirra mótstödu-menn vóru þeir medaumkunar-samir, hógværir, kjærleiks-fullir, audmjúkir, lítillátir. Páll segir um sig og hina adra Postulana: þegar vér erum hrakyrdtir, blessum vér; þegar vér erum ofsóktir, lidum vér þad þolinmódlega; þeg-ar vér erum spottadir, þá áminnum vér, 1 Cor. 4. Enthúsiastinn hleypur sjálfur út í háskann, framknúdur af falskri ákéfd; Jesú Postular flúdu hættuna, svo lengi þeir gátu, og gengu þá hid fyrsta med stödugljndi út í daudann, þegar ómøgulegt var ad flýja. Vér finnum þess vegna hjá Jesú Postulum ekki einn einasta af þeim eginlegleikum, sem eru kénni-teikn Enthúsiastans, heldur finnum vér þad, sem er þvertámóti; af hvada rokum skyldum vér þá hugsa, ad þessar trúarbragdanna het-jur hafi verid Enthúsiastar?

Eg vil taka til einn af Jesú Postulum til ad upplýsa þetta: allir þeckja Postulann Pál, hans lærdóm, hans lærdóms-máta, hans sinnislag, hans fyrra lifnad, ádur enn hann vard kristinn, og tækifærid til hans aptur-hvarfs. Allir vita, ad Páll var ad uppruna Gyd-íngur, af Pharisæanna flocki, og þess vegna svarinn óvinur Kristś og hans lærdóms. Hann dó þess vegna ecki fyrir trúarbrögd sinna forfedra, heldur fyrir annarleg, sem hann ád-ur hafdi med grimmilegasta hætti ofsókt. All-ir vita líka, og sérhvørr réttsýnn dómari hlýt-ur

ur ad játa, ad þessi mikli Postuli ecki var tældur til ad skipta um Gydinganna trúarbrögd fyrir þau kristnu; heldur ad hann hid fyrsta eptir hina sterkustu og greinilegustu sannfæríngu hvarf frá gydínga-dóminum til kristinndómsins. Bædi var þessi Postuli lærdur, skarpur, og í sínu óumvendta ástandi, eptir þeirra tíma hætti, mikid upplýstur madur, sem audveldt er ad sjá af þeim skrifum, sem hann hefir eptir sig látid; þad var þess vegna ecki svo hægt ad pretta hann; og líka var hann ákafur ofsóknari þeirra kristnu, þar þurftu þess vegna meira enn ordin tóm til ad sefa hans ofsóknar-anda, og yfirtala hann til ad umfadma þau trúarbrögd, sem hann af öllum kroptum leitadist vid ad uppræta; og loksins var tækifærid til hans apturhvarfs svo markverdugt, ad allir prettir vóru ómögulegir. Rett í því hann ætladi ad úthella allri sinni hefnd yfir þá kristnu, sá han skyndilega ljós af himni, og heyrdi raust, sem taladi greinilega til hans. Páll ansadi. Hann heyrdi sídan þessa raust í annad sinn. Hann ansadi aptur; og nú heyrdi hann Guds raust í þridja sinni, eptir hvörja himnesku sjón, hann vard yfirfallinn af blindni, sem varadi í þrjá daga, Post. g. b. 9. Hér gátu engir prettir haft stad; med sínum egin eyrum heyrdi hann þessa raust, og þad optar enn einusinni; med sínum egin augum sá hann þetta ljós, og blindnin, sem varadi í þrjá

daga, hlaut ad sannfæra hann um, ad allt þetta hefdi hvorki verid prettir edá misskilníngar.

Þad var þess vegna af grundvalladri sannfæríngu, ad Páll skipti um Gydínganna trúarbrögd fyrir þau kristilegu. Og hvor var orsökin til þeirrar hugar-breytíngar, hvar med hann forsvaradi þau allt til dauda-dags? var þad sú sama sannfæríng, sem kom hönum til ad fallast á þau, edur var þad máské stollt? var þad Enthúsiasmus? mun þad máské hafa verid stollt? mun hans tilgángur hafa verid, ad gjora sig þar med nafnfrægann hjá eptirkomendunum? ef vér gætum ad hans fyrri lifernis-háttum, þá sjáum vér ad hann leitadi sinnar æru í því, ad ofsækja þá kristnu med báli og brandi. Hvorninn gat hann nú á einu augna-bragdi umbreytt sínum þenkíngar-hætti og leitad sinnar æru í því, ad hann sjálfur væri ofsóktur fyrir Krists nafns sakir. Nei, vér sjáum miklu framar af öllum Páls sendibréfum, ad þó hann ádur hefdi verid stolltur, þá höfdu þau kristilegu trúarbrögd nú gjort hann audmjúkann. Hvörr er Páll, segir hann, hvörr er Apolló, utan þénarar, fyrir hvörja þér erud komnir til trúarinnar, og þad eptir því, sem Gud hefir útskipt hvörjum einum? eg hefi plantad, Apolló hefir vökvad; en Gud gaf ávöxtinn, 1 Cor. 3. Þessi mikli Postuli afleggur þann audmýkjandi vitnisburd um sjálfann sig: eg er minnst-

minnstur allra Postulanna, og ecki verdur ad eg skuli Postuli heita, vegna þess eg ofsókti Guds søfnud. En af Guds nád er eg, þad eg er, og hans nád vid mig hefir ecki til ónýtis verid; því eg hefi erfidad meir enn allir hinir, þó ecki eg, heldur sú Guds nád, sem med mér er, 1 Cor. 15. Mér, segir hann í ødrum stad, hinum allra-minnsta af øllum heiløgum er géfinn þessi nád, ad kunngjøra medal Heidíngjanna Kríscs óransakanlega ríkdóm, Eph. 3. Og hvørsu margar þvílíkar greinir mætti ecki framfæra, ef þørf gjørdist, er fullkomlega sannfæra oss, ad þó stollt hefdi verid Páls høfudbrestur í hans óumvendta tilstandi, þá vóru Jesú trúarbrogd búin, ad leida hann nú til lifandi þeckíngar síns óverdugleika og lítilmótlegleika. Þad var þess vegna ecki stollt, ecki von um ad útvega sér heidur, sem gjørdi hann svo stødugann í øllum þeim harmqvælum, sem hann hlaut ad þola fyrir trúarbragdanna sakir; þessari tilhnegíngu hefdi hann lángtum betur gétad fullnægt í sínu fødurlandi med því ad ofsækja þá kristnu, enn med því ad láta ofsækja sjálfann sig.

En mun þad þá hafa verid Enthúsiasmus, sem gjørdi hann svo hughraustann í øllum hans ofsóknum? sú grunsemi kann einúngis ad qveikjast hjá þeim, sem ecki þeckir Pál, sem aldrei med tilbærilegu athygli hefir lesid hans sendi-bréf. Finnum vér hjá Páli nockur

ur af einkennum Enthúsiastans? finnum vér hjá honum þá ádurnefndu óreglu í skilníngimim og sinnislaginu, edur finnum vér ecki Pál allstadar, sem djúpt þenkjandi, kjærleiks-fullann, sjedann og forsjálann mann? hvorsu djúpsæra og sterka greind, og hvorsu mikla hlíd vid hans mótstodumenn finnum vér allstadar í hans sendi-bréfum? hvorsu mikla forsjálni brúkar hann ecki, þegar hann er leiddur fyrir Yfirvaldid, til ad umflýja ofríki sinna motstodu-manna, svo lengi, sem leyfilegt var ad umflýja þad? Lúcas hefir, í Postulanna-gjorníngum, gefid oss eptirdæmi þar uppá, þau eru alkunnug, og þarf eg því ecki ad framfæra þau. Er þetta Enthúsiastans hegdan? og hvad hefir þá styrkt huga hans í ollum lífsins harmqvælum? hvad hefir gjort hann hug-hraustann til ad gánga út í daudann fyrir þau trúarbrogd, sem hann ecki hafdi í arf tekid eptir sína forfedur? óneitanlega eckért annad, enn sú sterka og grundvallada fullvissa, sem hann fann hjá sér um sannleika lærdómsins, sem hann vidurkénndi, og von þeirrar eptirkomandi farsældar, hvar hann vænti launanna fyrir sína nærverandi mædu. Þess vegna segir hann einnig: eg held, ad mótlæting þess nærverandi tíma, séu ecki akrandi á móti þeirri dýrd, sem vid oss mun opinber verda, Róm. 8; og í odrum stad: vorar nærverandi hormúngar, sem eru léttar, útvega oss eilífa yfirmáta vigtuga dýrd.

Eng-

Enginn réttsýnn dómari þarf eitt augnablik ad hugsa sig um, hvert hann eigi ad telja Pál med þeim sonnu píslar-vottum, og þad sem eg hefi sannad um hann, er allt eins audveldt ad sanna um hina adra Postulana, ef þess gjørdist þarf. En hvada skynsamlega ályktun skulum vér þá draga hér af? vér erum án efa of bráð-dæmir, þegar vér álýktum þannig: Jesú Postular hafa gefid út þeirra líf fyrir trúarbrogdin, þeir hafa innsiglad þau med þeirra blódi, þess vegna hljóta trúarbrogdin ad verà guddómleg. Þessi álýktan er of brádlát. Af þeirra gladværa og hughrausta píslarvættis dauda, getum vér ecki dregid adra álýktun enn þessa: Jesú Postular dóu fyrir þann lærdóm, sem þeir bodudu heiminum, þess vegna hljóta þeir sjálfir ad hafa álitid þennann lærdóm fyrir gudlegann, þess vegna hafa þeir fundid hjá sér þá sterkustu fullvissu ad hann væri þad. Þessi álýktan er skynsamleg, edur vér hljótum ad odrum kosti ad álíta Jesú Postula fyrir þá allra óskynsomustu af ollum monnum, og þad vóru þeir þó ecki, þad hefi eg ádur sýnt. Ad láta lífid fyrir þann lærdóm, sem þeir sjálfir álitu fyrir villu, hefdi verid þvílík fásinna, sem menn varla geta ímyndad sér, í þad minnsta ecki hjá Jesú Postulum, hverjir, eins og eg hefi ádur sannad, framknúdust hvorki af uppeldis hleypidómum, stollti né Enthúsiasmó. Þess vegna hafa Jesú Postular verid hreinskilnir menn, þess vegna hafa þeir ad

minnsta kosti trúad því sjálfir, sem þeir kenndu, þar um vitnar sú rósemi, sú hugprýdi og gledi, hvar med þeir gengu í daudann fyrir lærdómsins skuld. En var þá þeirra fullvissa á grundvelli byggd? þetta er eitt annad spursmál, sem fyrst verdur uppá ad svara, ádur enn þeirra fullvissa getur ordid ad vorri. Því var þad ecki møgulegt, ad þeir kynnu ad álita villu fyrir sannleika, þeir hefdu þá dáid fyrir villuna, og verid þó engu ad sídur hreinskilnir menn. Vér megum þess vegna maklega spyrja: hvørr var grundvøllurinn til þessarar stødugu og óhræranlegu fullvissu, sem ecki veiktist hjá þeim, þó þeir sæu þann smánarlegasta dauda fyrir augunum? þad vóru viss verk, vissir atburdir, ad hvørjum þeir sjálfir høfdu verid sjónarvottar. Þad vóru Jesú Krists krapta-verk, hans upprisa, hans himna-før. Þessa miklu atburdi høfdu þeir sjed med þeirra egin augum, og þar í gátu þeir ecki farid villt; því þeim var øllum svo háttad, ad hér gátu engir prettir stad haft. Þessir miklu atburdir sannfærdu þá um Krists guddómlegu sendíngu, og þess vegna líka um sannleika allra hans guddómlegu lærdóma; þess vegna vóru þeir svo fúsir ad leggja sitt líf í sølurnar fyrir þau sannindi, sem þeir høfdu lært af Kristi, og sem þeir bodudu heiminum. Þeirra píslarvættis daudi er þess vegna sú sterkasta rokseind, ad þessi verk hafi sannarlega skéd, því á þeim var þeirra fullvissa byggd; og hafi þessi verk sannarlega

skéd

skeð, þá drögum vér af þeim þá sömu byggjanlegu ályktun, sem Postularnir gjördu: Jesús Kristur er guddómlegur sendi-bodi, allir hans lærdómar eru gudleg sannindi, og vér megum óhult reida oss uppá þá. Með þessum ályktunar-máta getur Postulanna píslarvættis daudi verid roksemd fyrir sannleika þeirra kristilegu trúarbragda.

* * * * * * * * *

Þared Jesú Postular hafa svo gladir og svo hughraustir lagt út þeirra líf fyrir Jesú nafns sakir, þá er þad líka vor skylda, ad gêfa út vort líf, þegar Guds dýrd útheimtir þad. Þad er audveldt ad vera kristinn, þegar oss kostar þad eckért; þad er enginn kunst, ad heidra trúarbrögdin, á medan madur í fridi og rósemi má heidra þau, og madur þarámóti mætti afneita þeim strax, sem hörmúngar og ofsóknir uppá koma fyrir þeirra sakir. Þó vér medkénnum Krists nafn, þegar engin hætta er á ferdum, þá er þad veik roksemd fyrir því, ad vér séum sannir Jesú Krists tilbidjendur; en ef vér ættum ad verda fyrir sverdi og eldi vegna sannleikans, þá mundi þad sýna sig, hvad marga sanna vini hann hefdi á medal þeirra kristnu. Og megi marka þá litlu reynslu, er menn hafa, þá er uggvænt, ad á medal þess mikla fjölda kristinna manna mundu þeir verda allfáir, er hefdu þá heilögu hugprýdi Jesú Postula til ad bera, ef til kæmi.

Vér

Vér lifum fyrir Guds nád á þeim tíma, sem trúarbrogdin blómgast í ró og fridi undir vernd kristilegra Kónga. Vér megum opinberlega tilbidja Krist, og þurfum ei ad vera hræddir um ad vér munum missa vort góts edur vort líf vegna vorrar játníngar; en vér sáum stundum ámæli fyrir þad. Háð og spott er ecki all sjaldan þeirra laun, sem audsýna Kristi og hans lærdómi nockud meir enn almennilega lotníngu, ad vilja í opinnberu samqvæmi tala um Krist, ad vilja hrósa hans velgjorníngum vid manneskjurnar, edur þeirrí miklu nytsemi hans trúarbragda, já, ad vilja forsvara hans dýrd, þegar spottast er ad henni, þad væri ad ávinna sér athlátur lauslyndisins. Og hvad margir eru þeir þá, sem hafa hug til ad þola, þó ecki sé meir enn þessi hlátur, fyrir trúarbragdanna og Jesú nafns sakir? hvad margir hafa hug til ad nefna þetta nafn í vorum samkomum, þetta nafn, fyrir hvørju øll kné skulu beygja sig, þeirra, sem á himnum, á jørdunni og undir jørdunni eru? vér fyrirverdum oss aldrei ad tala um vora framlidnu velgjørda-menn, ad hrósa því, sem vorir Kóngar gjora vel, ad hæla réttvísi Aristidis, stjórnar-speki Lycúrgi, vísdómi Platónis; vér leitum oss jafnvel ágætis med ad sýna, ad vér hofum lesid rit heidinna Heimsspekínga, vér hofum í munni þeirra máltæki, og prýdum oss med þeirra fogru snylli-yrdum, sem vér hofum hjá þeim til láns tekid; en

hvad margir eru þeir, sem hafa hug til ad hrósa Kristi? hvad margir eru þeir, sem hrósa sèr af því, ad þeir hafi gaumgæfilega þenkt um hans guddómlega lærdóm, sem er þó svo miklu ædri enn hinna, sem himininn er hærri enn jördin? hvar af kémur þessi skammarlega þögn um Krist í kristilegu samqvæmi? orsökin er engin önnur enn sú, ad vèr annadhvort sjálfir finnum ecki hjá oss neina elsku neina lotníngu, fyrir Kristi, edur ef vèr finnum hjá oss nockud af þessu, þá er þessi tilfinníng svo veik hjá oss, ad hún ecki er megnug um ad yfirvinna þann lángtum sterkari ótta, sem vèr hjá oss finnum, ad vèr munum verda samqvæminu ad spotti, hjá hvörju vèr leitum framar eptir heidri, enn hjá Jesú Kristi. Þessi skammarlega hrædsla er roksemd fyrir því, hvörsu vorir sidir eru spilltir, hvörsu kristinndómurinn er kominn á fallanda fót hjá oss, hvörsu vèr erum dofnir í trúarbragdanna efnum, og hvörsu litinn kjærleika vèr hösum til Krists, hvörs elska ætti ad uppfylla alla vora sálu. Meira þurfum vèr ecki enn þessa einu reynslu til ad sannfærast um, ad oss brestur mikid uppá þá heilögu vandlætíngu, sem uppifgadi Jesú Postula, sem fyrir Jesú nafns sakir ecki einúngis tóku uppá sig alls heimsins spott, heldur einnig lögdu sjálft lífid í sölurnar.

Hvorninn mundi þá fara, ef Gud reyndi oss med sama hætti sem þá? ef vèr ecki getum yfirunnid svo veikar freistíngar, hvörninn

S mund-

mundum vér þá gêta yfirunnid þær, sem eru lángtum sterkari? Þar oss brestur svo mikid uppá þeirra heilogu hugprýdi, hvorsu mikid mun oss, þá seinna meir bresta á þeirra vegsemd? ef vér ecki strídum med þeim, hvorninn kunnum vér þá ad vænta eptir ad krýnast med þeim? já, þó vér ecki þurfum ad reyna svo hardt stríd, sem þeir, þá ættum vér þó ad hafa til ad bera þá somu hugar-hreysti, sem þeir, sama kjærleika til Krists, somu vandlætíngu fyrir hans dýrd, somu heilaga lyst til ad gêsa út þad, sem vér hofum kjærast, fyrir hans sakir, sem gaf sig sjálfann út fyrir oss; og þá kunnum vér ad vænta ad verda hluttakandi í sigur-kransi þessara heilogu píslarvotta.

## XXXIII. Kapítuli.

### Um uppbyggíngu kristilegrar Kirkju af Postulunum.

Þad stærsta og furdanlegasta af ollum þeim krapta-verkum, sem Kristur og hans Postular hafa gjort, er óneitanlega stiptan og útbreidsla kristilegrar kirkju um allann heiminn. Þetta eina krapta-verk er nóg sannfæring uppá sannleika allra hinna annara, sem í frásagnir eru færd um þessar trúarbragdanna hetjur. Ef þær frásagnir, sem vér hofum um Krists og hans Postula krapta-verk, væru skrokjognir einar, þá væri þad fyrir oss sá óskiljanlegasti atburdur, sem nockurntíma hefir vidborid

borid í heiminum, hvorninn Jesú kirkja gat af svo litlum upptökum fengid svo stórann framgáng. Ad Mahómeth gat breidt sín trúarbrögd svo vídt út um heiminn, þar hann hafdi sverdid í annari, en jardneskar vellystíngar í annari hendi, þad er þeim ecki óskiljanlegt, sem þeckja mannsins hjarta. En ad 12 menn af lítilmótlegasta almúga koma frá Gydínga-landi, ad þeir hrísta allann heidinndóminn, prédika trúarbrögdin med ávexti í öllu Róma-ríki, og stipta allstadar safnadi, sem kénna sig vid þann krossfesta Krist, já, leggja grundvöll til þeirrar vídt útbreiddu kirkju, sem ecki einúngis stendur allt til þessa dags, heldur einnig sífeldlega útbreidist vídar um heiminn, þad er þvílíkur atburdur, sem er allteins óskiljanlegur, sem hann er vís; vís er hann, því vér sjáum hann fyrir augunum, og oldúngis óskiljanlegur mundi hann vera oss, ef þad væri ecki allt satt, sem í rit er fært um Krist og hans Postula.

Med oldúngis ótrúlegum hasti útbreiddist Jesú kirkja um allt Gryckland. Í Skytía (kolldu Svíþjód), Medía, Persía, Æthiopía (Blálandi), féck hún medlimi. Á adra sídunæ þreyngdi hún sér til Indía-lands, og med sama hasti útbreiddist hún á hina sídunæ um Nordur-álfuna. Einnig sú stollta Rómaborg, heimsins Drottning, sá kristinn sofnud vaxa upp midt í heidinndóminum á hans rústum. En þessi takmörk vóru enn þá of þraung,

 hún

hún útbreiddist til ytstu takmarka Nordur-álfunnar. Spanía og Portúgal sáu afguda-dýrkendurnar umbreytast og verda ad Jesú Krists tilbidjendum. Þadan útvíkkadist Jesú kirkja á adra sîduna til Englands, og á hina sîduna til Sudur-álfunnar. Og þvílíkann framgíng hafdi hún á einum manns-aldri. Medan Jesú Postular enn þá lifdu, sáu þeir þessa stóru ávexti af þeirra erfidi. Páll skrifar til safnadarins í Róm: ad þeirra raust væri útgenginn um allann heiminn og allt til jardarinnar enda, Róm. 10. Hann segir um sjálfann sig: ad hann frá Jerúsalem og allt um kríng inn til Illyricum hefdi kénnt Krists Evangelium, og vildi nú fara um Róma-borg til Spanía, Róm. 15. Pétur skrifar sín bréf til þeirra safnada, sem þá þegar vóru stiptadir í Pontó, Galatía, Kappadocía Asía og Bithynía, 1 Pét. 1.

Þegar vér athugum þennann flýtir, med hvörjum Jesú kirkja útbreiddist um heiminn, þá hljótum vér ad leidast til ad trúa, ad yfirnáttúrlegur kraptur hafi hjálpad til hennar útbreidslu. Enginn straumur er svo sterkur eda stridur, ad ecki megi stemma stigu fyrir honum; enginn eldur svo ákafur, ad hann ecki verdi slocktur; eckért mannlegt áform svo slægvlega uppsundid, edur med svo sterkri makt framfylgt, ad því ecki verdi hamlad, þegar jafnbodinn kraptur kémur þar á móti. En Jesú

Evangelíum gat engin mótstada hamlad, þad braust ígégnum allar þær hindranir, sem mannanna illska, veldi skilningar-vitanna, herradæmi geds-hræringanna, medfæddir hleypidómar og Yfirvaldsins makt lögdu í veginn fyrir þess útbreidslu. Ef vér viljum dæma réttilega um fljótleika eins hlutar, þá hljótum vér undir eins ad gæta ad þeim hindrunum, sem setja sig á móti hans framgángi; og hvörsu margar og miklar vóru þær hindranir, sem settu sig á móti framgángi kristilegrar kirkju. Hér vóru á adra sídūna holdlegar gyrndir, sem ecki gátu stadist med Jesú Krists heilögu lærdómum. Allar Postulanna kröfur lutu ad því, ad menn skyldu krossfesta sitt hold med þess girndum og tilhneigingum; ad menn skyldu hreinsa sig frá allri saurgun holdsins og andans; ad menn skyldu afneita sjálfum sér, og því, sem mönnum þókti vænst um í heiminum; ad menn skyldu afklædast þeim gamla manni med hans girndum og tilhneigingum; ad menn skyldu íklædast þeim nýja manni, sem eptir Gudi væri skapadur í sannarlegu réttlæti og heilagleika; ad frillulífis-menn, afguda-dýrkarar, hór-karlar, sælgjætingar, þeir sem skömm drýgja med karlmönnum (syndga á móti náttúrunni) þjófar, ágjarnir, ofdryckju-menn, ordhákar og ræningjar mundu ei erfa Guds ríki. Hvörsu nærstum því óyfirvinnanlega mótstödu hlaut þvílíkur lærdómur ad fyrirhitta í hjörtum þeirra manna, sem ád-

 ur

ur høfdu óhindrad látid eptir sér allt hvad þeirra spillta náttúra eggjadi þá á, já, þóktust jafnvel heidra sín trúarbrøgd og dýrka sína Gudi med því, ad láta þetta eptir sér. Á hina sídunu høfdu þeir grundada orsök ad óttast fyrir missir allra sinna tímanlegra muna; ad medtaka Jesú trúarbrøgd, og gjørast limur hans kirkju, var á þeim tímum þvílíkt afbrot, vegna hvørs menn undir offókununum hlutu ad nidurleggja sitt embætti og metord, skilja vid hús og heimili, missa þeirra tímanlegu eignir, og jafnvel sjálft lífid. Og til endurgjalds fyrir þessa sjálfs afneitun áttu þeir ecki von á ødru, enn húngri, þorsta, kulda, klædleysi, fjøtrum, sverdi og eldi, og til ad umflýja þad versta af øllu þessu, til ad forda lífinu, hlutu þeir ad flýja úr einum stad í annann. Allt til þessa tíma, segir Páll, þolum vér sveingd og þorsta og nakleik og pústra, og høfum engann vissann samastad, 1 Cor. 4. Eg vil enn þá bæta hér vid þeim óteljandi raungu meiningum, sem þeir høfdu vanist á í uppvextinum, og inndruckid med módur-mjólkinni. Þad vóru ecki einúngis børn, sem gjørdust limir Krists kirkju, heldur fullordid fólk, sem frá úngdómi hafdi uppalist í ødrum trúarbrøgdum og annari gudsþjónustu; í þvílíkri gudsþjónustu, hvørrar árvortis vidhøfn skémti augunum og ímindunar-kraptinum; í þvílíkri gudsþjónustu, sem høfd var í heidri af þeirra høfdíngjum og spekíngum, og sem þeirra forfedur

fedur í svo mørg hundrud ár høfdu í há=vegum haft; í þvílíkri gudsþjónustu, sem einúngis var innifalin í útvortis sansalegum athøfnum, og syndist fyrir þá sok ad vera þess skiljanlegri fyrir alþýduna. Nú vóru þeim þar á móti bodud þau trúarbrøgd, hvar allt var andlegt, hvar menn í anda og sannleika áttu ad tilbidja ósýnilegann Gud. Hvorsu sterkar vóru þá ei þær hindranir, sem settu sig á móti framgángi kristilegrar kirkju? vér skulum einúngis hugsa eptir, hvorsu mikid þad kostar ad dempa einúngis eina girnd, sem madur elskar, og sá, sem vildi verda medlimur Jesú kirkju hlaut ad losa því, ad hann vildi kappkosta ad yfirvinna þær allar. Vér skulum hugsa eptir, hvorsu naudugt manni er ad medtaka þann lærdóm, sem útheimtir af honum, þó ecki sé nema litilsjorlegt, af hans tímanlegum munum; og til ad verda medlimur Jesú kirkju hlutu þeir ad fara á mis vid þá alla. Vér hofum nóg dæmi til, ad laus=lyndir menn hafa fyrir tímanlegann ávinníng skipt um sinna forfedra trúarbrøgd fyrir ønnur ný; en vér megum lengi leita, til ad finna skynsama menn, sem hafa lagt nidur þeirra gomlu, en tekid ný trúarbrøgd, sem ecki hafa áunnid þeim annad, enn skomm, smán, sátækt og ofsóknir, sem hafa brynjad bødlana med fángelsi, báli og brandi á móti þeim. Oss mundi bresta þvílík dæmi, ef vér ecki vildum sækja þau til kristinndómsins fyrstu tíma. Vér skulum hugsa eptir,

hvorsu torveldt mannoskjunni veitir, jafnvél í hinu minnsta, ad afleggja forfedranna meiníngar, sem madur hefir vaniſt á í uppeldinu. Ef einhvorr kjæmi til vor og bodadi oss ólúngis ný trúarbrogd, sem viki í ollum portum frá þeim, sem vér nú hofum; ef hann ſkipadi oss ad rífa nidur vorar kirkjur, umturna vorum olturum, brjóta þess krossfesta Jesú bílæti, ad selja vort góts, og ſkipta því á medal fátækra, ad hlaupa óſkélkadir út í vatn og eld, ad ſlíta oss úr ormum vorra kjæruſtu vina, og allt þetta, til ad medtaka þennann nýja lærdóm, hvorninn mundum vér taka á móti þvílíkum kénnifedur? mundum vér gjora ſvo mikid, sem unna honum vors áthyglis? mundum vér taka uppá oss þad ómak ad ranſaka hans lærdóm? og vegna hvors? vegna þess vér álítum vor egin trúarbrogd fyrir sonn; þau eru trúarbrogd vors lands, trúarbrogd vorra forfedra, þau trúarbrogd, sem svo margir lærdir og ypparlegir menn álíta fyrir guddómleg. Og eru þad ecki fleſtir kriſtnir, sem ecki vita annann grundvoll fyrir sannleika þeirra trúarbragda, enn þennann? en, fyrir Heidíngjunum var því vidlíka háttad; á medan þeir gengu í þeirra blindni, álitu þeir einnig þeirra nótt fyrir dag, þeirra myrkur fyrir birtu, og þeirra ſkrokſogur fyrir gudleg sannindi. Og samt hafa þeir afneitad ſjálfum sér, samt hafa þeir yfirunnid þeirra inngrónu hindur-vitni, samt hafa þeir lagt í solurnar alla þeirra tím-

an-

anlegu muni, til ad gjørast medlimir Jesú kirkju. Sétum vér þá nógsamlega dádst ad þeim skjótleika, hvar med Jesú kirkja útbreidd-ist um heiminn, þar hún átti svo margar og miklar hindranir vid ad strída, sem bædi í og utan vid manneskjurnar settu sig á móti henn-ar framgángi. Hljótum vér ecki ad géta til ad guddómlegur kraptur hafi verid hér í verk-inu med, þvílíkur kraptur, sem engin mannleg mótstada gat hindrad.

Hvad var þad annars, sem kom Heid-íngjunum til ad taka borgar-rétt í Jesú ríki? finnum vér nockud hjá Jesú Postulum sjálfum, sem menn, eptir náttúrlegum hætti, hefdu kunn-ad ad géta til ad leidt hefdi svo mikilvæga um-breytíngu eptir sig í heiminum? eg vil ran-saka þetta spursmál. Jesú sendibodar krydd-udu ecki þeirra framburd med málsnyllinnar blómstrum, heldur framsettu þeir þessi heilögu sannindi í þeirra nakta sakleysi, án þess ad klæda þau í fagrann búníng, án þess ad prýda þau med mælsku-kunstinni. Hér var ecki sú fegurd og sá ordsnyllinnar glampi, hvar med mælsku-madurinn leitast vid ad ávinna sína tilheyrendur. Þegar eg kom til ydar, segir Páli, þá kom eg ecki med glæsilegri mál-snylli edur vísdómi, ad kunngjöra ydur þau gudlegu sannindi, 1 Cor. 2. En þá síd-ur brúkudu þeir kunstugár skynsemis ályktanir, med hvørjum audveldt er ad fánga þann ein-falda, sem ecki er fær um ad skilja lánga ked-

 ju

ju af samanhángandi sanhindum. Til þvílíkrar törveldrar kenníngar vóru Postularnir ecki hæfir, sem í uppvextinum hofdu notid lítillrar edur engrar uppfrædíngar, sem aldrei hofdu æft þeirra skynsemi og aldrei skérpt þeirra greindar-krapt. Tökum fiski-mann, sem allt til þessa hefir einúngis þenkt um netid sitt og aunglinn, ellegar bónda, sem allann sinn aldur hefir ecki lagt annad fyrir sig enn slá og róa, ellegar þann, sem sífeldt hefir verid í sjóferdum, og ecki fengist vid annad enn segl og kadla, leidum þá inn í kristinna manna samkomur, og látum þá stíga í rædu-stólinn, hvörsu mikillar mælsku, veraldlegs vísdóms ellegar strángrar skynsemis ályktana kunnum vér ad vænta hjá þessum kénnifedrum? Páll var lærdur eptir þeirrar aldar-máta, og án efa sá lærdasti af Jesú Postulum; enn hann nýtti sér þad ecki: Mín ræda og mín prédikun, segir hann, var ecki innifalin í snyldar-ordum mannlegrar vitsku, heldur í krøptugum sannfæríngum Evangelii, svo ad ydar trú skyldi ecki vera byggd á mannlegum vísdómi, heldur á Guds krapti, 1 Cor. 2. Hvad var þad þá, sem yfirtaladi heiminn til ad afleggja heidinndóminn og gjörast medlimur Jesú kirkju? hafa Jesú Postular máské lofad þeim stórum launum, sem tóku borgar-rétt í Jesú ríki? já, þeir lofudu þeim eilífri sælu, en þessi laun vóru ósýnileg, þau vóru ecki fyrir augunum, þau kunnu ecki ad sjást nema svo sem í þoku og

lángt

sé sú persóna, sem hann sagdist vera, hvar af náttúrlega flýtur, ad hann ecki gétur hast hid annad til ad bera, sem til trúarinnar útheimtist; ellegar af því, ad hann ecki finnur hjá sér neina sanna og innilega laungun eptir ad verda adnjótandi Jesú forþénustu; ellegar líka af því, ad hann ecki hefir neina stødugа og sterka girnd til ad lifa eptir Jesú heiløgu bodordum. Á hvørja sídunа, sem vér athugum hann, er þvílíkur madur óhæfilegur, og gétur ecki annad enn verid óhæfur til eilífrar sælu. Eg vil stuttlega færa sønnur á mál mitt.

Sá, sem skal hafa þá sáluhjálplegu trú á Krist, hlýtur ad medtaka hann fyrir þá persónu, sem hann sagdist vera, fyrir heimsins Lærimeistara og heimsins Endurlausnara; neiti hann því fyrra, þá álítur hann Krist fyrir svikara, hans stóru krapta-verk, med hvørjum hann stadfesti sína guddómlegu sendíngu, fyrir eintómar sjón-hverfíngar, þad góda og nytsamlega, sem menn þykjast finna í hans guddómlegu kénníngum, fyrir mannlegar meiníngar, hvar af menn megi medtaka svo mikid eda litid, sem þeim sjálfum sýnist, en burtkasta hinu, sem ecki gétur stadist med þeirra eginn þaunkum og tilhneigíngum þess spillta hjarta; en ad sá, hvørs hjarta er svo hrædilega spillt, ad sá, sem spottar Krist og forakrar þau sannindi, sem honum vóru til betrunar géfin, ad þvílíkur madur gjøri sig óverdugann Guds nádar og sælu þess eptirkomanda

anda lífs, þar á er engin efi. Neiti hann þarámóti því sídara, neiti hann, ad Kristur hafi verid heimsins Endurlausnari, þá neitar hann annadhvort Guds almennilega yfirherradæmi, og heldur, ad Gud horfi adgjördalaus á sín handa-verk, skipti sér ekkért af, hverninn framfer medal mannanna, og séu menn honum þess vegna ecki skyldugir um elsku, hlýdni edur lotníngu, ellegar hann neitar Guds heilagleika og réttlæti. Stundum á Skaparinn ecki ad hafa fyrirskrifad sínum skynsemdarfullu sképnum neitt lögmál; stundum á þad ad standa á sama, hvort menn uppfylli edur yfirtrodi þad; stundum á Gud ad géta fyrirgéfid syndurunum þeirra afbrot, án nockurs forlíkunar-medals; í Gudi, hvors fullkomlegleikar eru allir eins stórir og eins óendanlegir, á þó hans miskunsemi ad vera stærri enn hans réttlæti. Þess vegna þarf engrar fridþægíngar vid, einkis endurlausnara, einkis medalgángara á milli Guds og manna. Sá þess vegna, sem neitar, ad Jesús Kristur sé heimsins Endurlausnari, hann hryndir ecki einúngis frá sér því einasta medali, fyrir hvort hann kann ad frelsast, heldur neitar hann einnig öllu því, sem er stórt og óendanlegt í þeirri guddómlegu veru; hversu sanngjarn er þá ecki Ritníngarinnar dómur: hvørr, sem ecki trúir, hann skal fordæmast.

Sá, sem skal hafa sáluhjálplega trú á Krist, hlýtur ad hafa sanna og innilega laungun

un eptir ad verda adnjótandi Krists endurlausnar. Finni kristinn madur ecki hjá sér þessa laungun eptir Guds náð í Kristi, hvornínn géta menn þá hugsad, ad Gud muni aéfa þeim sína náð, er virdir hana svo lítils? Nær hefir þad heyrst, ad nockurr hafi naudgad uppá annann sínum velgiörníngum, þegar hann med allri sinni hegdun sýnir, ad hann foraktar þá? vér sjáum fátækann mann, vér vitum mikid vel, ad hann þarf vid vorrar ölmusu, vér erum reidubúnir ad géfa honum hana; en vér verdum ecki varir vid neina laungun hjá honum eptir ad njóta hennar, vér gaungum fram hjá honum, hann hrópar ecki eptir oss. Vér köllum til hans, hann kémur ecki; vér sýnum honum vora gáfu, hann útréttir ecki höndina til ad taka á móti henni; vér gaungum eptir honum, vér gaungum á móti honum, og hann skilur vid oss og gengur burt öldúngis áhyggjulaus, eins og hann vanti eckért. Mundum vér troda vorum velgiördum uppá þennann tilfinníngarlausa og óþackláta mann? edur kunnum vér segja, ad sá sé ómiskunsamur, sem heldur sínum gáfum inni í þvílíkum kríngumstædum? og rétt eins og þetta, hegdar sér vid Gud sá syndari, sem ecki finnur til neinnrar sannrar og innilegrar laungunar eptir Guds náð í Kristi. Hann spottar ad sönnu ecki Gud, hann finnur sig sannfærdann um, ad ecki sé sáluhjálp í nockrum ödrum enn Jesú Kristi; en af því hann er bundinn vid jördina, trylltur

ur af skilníngar-vitunum og nidursockinn í ver-aldlegar sýslanir, þá þenkir hann hvorki til Krists né þeirrar sælu, sem hann hefir út-vegad, hann finnur ecki hjá sér neina laungun eptir Guds náð, ellegar hans eptirlángan er kold og hálf-volg; hún er ecki svo alvarleg, svo innileg, sem hún ætti ad vera. Hvad er þá ad undra, þó Gud naudgi ecki uppá hann þeirri náð, sem hann lítils virdir og skeytir ecki um! med Krists endurlausnar-verki hefir Gud tekid oss í sátt vid sig; hann hefir brúkad þau kroptugustu medol til ad draga oss upp úr þeirri gryfju, í hvorja vorar syndir hofdu nidursteypt oss; hann hefir aptur opnad oss himininn, og inngáng til æfaralidi gledi, hann lætur kunngjora oss þessa sælu; hann upporf-ar oss til ad keppast eptir henni; trúin er sú hond, sem vér egum ad útrétta til ad taka á móti henni; ef vér ecki viljum gjora svo mik-id, sem útrétta þessa hond, ef vér ecki finnum hjá oss neina laungun eptir þeirri frambodnu náð; ef vér skeytum henni ecki; í einu ordi, ef vér ecki trúum á Krist, þá er þessi trúar-skortur foraktan Guds nádar. Og hvorsu stór er mismunurinn á milli þess, sem neitar aldúngis Guds náð í Kristi, og þess, sem trúir henni ad sonnu, en foraktar hana? sá fyrri foraktar þessa náð, af því hann ecki trú-ir henni, hinn sídari trúir henni, og foraktar hana samt. Bádir eru vantrúadir, bádir eru foraktarar Guds nádar í Kristi; Ritníngar-

inn-

innar dómur er þess vegna allt eins sanngjarnlegur yfir þeim eina, sem hinum ødrum: hvørr, sem ecki trúir, sá skal fordæmast.

Ad sídustu hlýtur sá, sem skal hafa þá sáluhjálplegu trú á Krist til ad bera, einnig ad hafa innilega og sterka girnd til ad lifa eptir Jesú heiløgu bodordum, og þessi girnd hlýtur ad vera allt eins stór, sem laungunin, er hann finnur hjá sér til ad verda adnjótandi Jesú Krists fridþægíngar. Sá, sem ecki finnur hjá sér neina sanna og drottnandi girnd til ad undirkasta sig Jesú Krists tilskipunum; sá, sem metur þad meir, sem hans spillta náttúra eggiar hann á, heldur enn þad, sem trúarbrøgdin bjóda, hann hefir vondt og spillt hjarta, hann elskar sjálfann sig meira enn Gud, heiminn meira enn himininn; hann er ánaudugur þræll sinna skilníngar-vita og gèds-hræringa. Hvørninn gètur þvílík sála verid hæfileg til þeirrar eilífu sælu? þó Jesú forþènusta hafi óendanlegann krapt, þá megnar hún þó ecki ad gjøra hann farsælann. Sú sála, sem færir alla sína holdlegu fýsn, sínar bordulegu girndir, sínar óstjórnlegu gèds-hræríngar med sèr inn í eilífdina, mundi í sjálfum himninum engann himin finna, af því hún gètur þar ecki fundid neina mettun fyrir sína fýsn, sínar girndir og sínar gèds-hræríngar. Høfud-tilgángur Jesú trúarbragda er, ad vísa oss á þau bestu medøl til ad uppræta vora løsti, og íklæda oss þeim dygdum, sem eiga ad

skarta á oss í eilífdinni, af því lestirnir færa med sér þeirra egin fordæmíngu, eins og dygdin hefir sín egin laun í rósemi samvitskunnar, fridi hugskotsins og medvitundinni um sín egin góðverk. Pad er þess vegna adal-tilgángur allra trúarbragdanna bodorda ad leida oss til dygdanna, til þess ad gjøra vor hjørtu med dygdunum hæfileg til þeirrar eilífu sælu; og þess vegna, já, sem ecki undirkastar sig bodordum Jesú heilogu trúarbragda, hann elskar lestina meir enn dygdirnar, hann gengur þann veg, enn vid hvørt fótmál leidir hann leungra frá sáluhjálpinni, en nær fordæmíngunni. Gud sjálfur, og öll himnaríkis sæla kann ecki ad gjøra hann luckulegann; því hann hefir óluckuna innvortis hjá sér, í spillíngu síns egin hjarta. Hans drottnandi girndir, sem hann hér í heimi ecki hefir viljad undirþryckja, og sem hann sídarmeir ecki getur mettad, þessar girndir eru eilífdarinnar qvalir, sem eru allt eins ódadskiljanlegar, sem dygd og farsæld. Alyktanin verdur þar fyrir þessi: sá, sem skal verda hlut-takandi í sælu eilífs lífs, hann hlýtur ad trúa á Krist, hann hlýtur ad hafa stoduga og sterka girnd til ad uppfylla þad, sem Jesú heilogu trúarbrogd honum fyrirskrifa. Þar, sem þessi girnd er ecki, þar er engin trú, og þar, sem eingin trú er, þar er engin von sáluhjálparinnar. Ritníngarinnar dómur er þar fyrir saungjarn og réttvís: hvørr, sem ecki trúir, sá skal fordæmast.

Svo

Svo naudsynleg er trúin til ad verda hlut-takandi þeirrar sælu, sem Kristur hefir útvegad manneskjunum. Sá, sem ecki trúir, neitar annadhvert, ad Kristur sé heimsins Lærimeistari og heimsins Endurlausnari; hann álitur þeis vegna Krist fyrir svikara, og hans forlíkun fyrir heimsku: ellegar hann med svívirdilegasta hyrduleysi foraktar þá nád, sem honum er frambodin í Kristi, þó hann ecki neiti henni, ellegar hann gengur á lastanna, og þar fyrir einnig á fordæmingarinnar vegi, þó hann æski sér þessarar nádar. Hvørninn getur manneskjan med slíkum þenkingar-hætti ordid sáluhólpin? ad standa uppá þad, er sama og ad segja: ad í þeirri ædstu veru sé enginn vísdómur, enginn heilagleiki, eckert réttlæti. Ef Gud gæti gjört manneskjurnar sáluhólpnar án trúarinnar, þær manneskjur, sem þeckja Krist, sem eru sannfærdar um þann guddómlega uppruna hans trúarbragda, edur, sem ad minnsta kosti gætu sannfærst um hann, ef þær einúngis sjálfar vildu; ef Gud, segi eg, gæti gjört þvílíkar manneskjur sáluhólpnar án trúarinnar, þá gæti hann líka gjört þær sáluhólpnar án forlíkunar-medals; þad eina stríd-ir ecki meira á móti Guds fullkomlegleikum, heldur enn hid annad. Ad veita þeirri manneskju nád vegna Krists verdskuldunar, sem foraktar þessa frambodnu nád; ad naudga uppá manneskjuna hlutdeild í Krists endurlausn, sem enga hlutdeild vill hafa í hans fridþægíngu;

ad draga manneskjuna nauduga til sáluhjálp-arinnar, sem af ásetníngi gengur á glötunar-innar vegi; það er med ødrum ordum: ad frelsa manneskjuna frá fordæmíngunni, og leida hana til sáluhjálparinnar med ómótstædilegum hætti, med øllum hennar drottnandi girndum, á móti hennar ósk og vilja, hvílik gædska í Gudi, ef það annars kann ad kallast gædska, kann allt eins lítid ad sameinast vid Guds vísdóm, sem það, ef hann án fridþægíngar vildi taka til nádar fallna og mótþróanlega syndara.

* * *

Eg vona nú, ad allir sjái audveldlega, hvad Gud heimtar af þeim kristnu, til ad gjøra þá hlut-takandi í Jesú Krists fridþægíngu, og hvar fyrir hann heimtar þvílíkt af þeim. Vér hljótum þess vegna ad afleggja allar þær raungu meiníngar, sem menn almennt gjøra sér um þá sáluhjálplegu trú, hverjar eru stór hindran í þeirri sjálfs prófun, sem útheimtist til kristins manns betrunar. Flestir kristnir efast enganveginn um, ad þeir trúi á Krist; því þeir eru skírdir, þeir eru med skírninni innteknir í Krists kirkju, þeir eru uppfræddir í grundvallar-lærdómum hans trúarbragda, þeir hafa verid stadfestir í þeirra skírnar-sáttmála, þeir halda Jesú endurminníngar-máltíd, þeir koma einusinni í hverri viku í Guds hús, þeir bidja, þeir lesa, þeir syngja lofsaunga Gudi og Jesú til dýrdar, þeir gjøra allt

allt med, sem útheimtist til þeirrar útvortis Guds-þjónustu; munu þeir þá ecki hafa trúna á Krist? og munu þeir þá ecki, prýddir med þessari trú, vera þócknanlegir þeirri ædstu veru, og hafa grundada von um þad eilífa líf? nei, allt þetta gëtur sá vanheilagi haft samegin-legt vid þann heilaga. Sá vanheilagi er einn-ig skírdur, hann er líka innlekinn í Krists kyrkju, hann er líka uppfrædur í trúarbragd-anna sannindum; sá vanheilagi krýpur opt fram vid hlidina á þeim heilaga fyrir Herr-ans altari, sá ósvísni syndari og sá sann-kristni gánga bádir til Guds húss, eins og Pharisæinn og Tollheimtumadurinn, þeir bidja bádir, þeir heyra bádir Guds ord, þeir sýngja bádir kristninnar lofsaunga; og med øllu þessu munum vër þó ecki leida oss í huga, ad þeir sëu bádir jafn hæfir til eilífdarinnar, ad þeir bádir hafi sømu von sáluhjálparinnar.

Sú almennasta rânga meiníng, sem blind-ar þá kristnu, þegar heimtud er af þeim trúin á Krist, er þessi: ad þeir blanda saman trúnni á Krist vid þeckínguna á Kristi og þá full-komnu samsinníngu, med hverri þeir medtaka þessa þeckíngu. Ef vër spyrjum alþýdu, hvort hún trúi á Krist, þá munum vër án efa fá þetta svar: já, eg trúi, því eg efast ecki um, ad Gud hafi skapad heiminn, ad hann stjórni og stýri øllum hlutum og øllu því, sem fram-fer í heiminum. Eg trúi; því eg efast ecki um, ad Kristur së Guds Sonur, ad hann

hafi

hafi forlíkad heiminn vid Gud, ad hann hafi dáid fyrir mannanna syndir og fyrir mínar syndir, ad hann hafi uppriſid frá daudum, uppſtígid til himna, og svo framvegis. Ollu þessu trúi eg, eg er oldúngis viſs um þad, og eg hefi aldrei efaſt um þad í nockuru máta; hvad vantar mig þá framar til þeſs, ad eg hafi þá trú, sem til sáluhjálpar útheimtiſt? jú, mikid vantar enn þá, þad vantar, sem meſt áridur, nefnilega þetta: ad vor trú á ad vera lifandi, frjóſſom og kroptug til ad betra vorn vilja. Þad vantar enn þá, sem Poſtulinn heimtar: ſyn mér trú þína af verkum þínum, Jac. 2.

Ef vér þeſs vegna viljum vita, hvort vér hofum þá trú til ad bera, er til sáluhjálpar útheimtiſt, þá hljótum vér ad prófa, ecki vora þeckingu, heldur vor verk; og þó einúngis þau verk, sem eru trúarinnar ávextir. Til eru þau gódverk, sem einúngis eru ávextir náttúru-farſins. Ad sá vellyſtugi er vingjarnlegur, vidqvæmur, medaumkunarſamur, mannúdlegur, gódgjordaſamur, þad eru optaſt náttúru-farſins, en ecki trúarinnar ávextir. Ad sá ſtollti er hreinlyndur, þénuſtuviljugur, vandlátur, trúfaſtur, þad eru optaſt náttúru-farſins, en ecki trúarinnar ávextir. Ad sá ágjarni er hóffamur, reglu-bundinn, ſparſamur, hatari alls ſællífis og lyſtiſemda, þad eru optaſt náttúrufarſins, enn ecki trúarinnar ávextir. Sú sáluhjálplega trú auglyſir ſinn krapt þar í, ad hún uppvekur hjá oſs ſtoduga og ſterka girnd til

ad

ad uppfylla allar Jesú heilögu skipanir, ecki einúngis þær, sem koma saman vid vort nátt-úru-far, þess girndir og tilhneigíngar; því hér getur sá vantrúadi gjört þad sama; heldur einnig þær, sem strída á móti voru náttúru-fari og þess tilhneigíngum. Þegar sá vellyst-ugi, upphvattur af Jesú Krists kjærleika, dempar sín skilníngar-vit, strídir á móti þeirra freistíngum, og heldur þeim í taumi, þá er trúin kroptug í hans hjarta, hann verdur var vid hennar verkanir, og efast ecki framar um orsökina. Þegar sá stollti, upphvattur af Jesú kjærleika, umbreytir sínu stollti í audmýkt, sínni hefndargirni í hógværd, sínni öfund yfir annara lucku í gledi yfir þeirra velgengni, þá er trúin kroptug í hans hjarta, hann verdur var vid hennar verkanir, og efast ecki framar um orsökina. Þegar sá ágjarni, tilknúdur af Krists kjærleika, brúkar sínar nægtir til ad metta þann húngrada, svala þeim þyrsta, klæda þann nakta, þá er trúin kroptug í hans hjarta, hann verdur var vid hennar verkanir, og efast ecki framar um orsökina.

Þessi eru kénniteikn þeirrar sönnu sálu-hjálplegu trúar, sem Gud heimtar af þeim kristnu; því þessir eru hennar ávextir. Þó megum vér í þessu voru veikleikans standi ecki svo mjög prófa vor verk, sem þá heilögu girnd, er vér höfum til ad gjöra þau. Sá veiki kristni mundi annars opt og tídum finna or-sök til ad örvænta um sitt sálar-ástand; hvörsu

opt hrasar hann, hvörsu hætt er honum vid ad detta, og hvorsu torveldt veitir honum ad standa upp aptur. Sá besti kristinn madur finnur opt orsök ad qvarta med Páli: vil-jann hefi eg ad sönnu; en ad gjöra þad góda, megna eg ecki. Því þad góda, sem eg vil, gjöri eg ecki; en þad illa, sem eg vil ecki, þad gjöri eg, Róm. 7. En sá, sem enn þá er trúar-veikur, er þó allt eins vel trúadur, sem hinn trúar-sterki; eg hefi þeis vegna til þeirrar sáluhjálplegu trúar einúngis útheimt innilega, stoduga og sterka girnd til ad uppfylla bodord Jesú heilogu trúarbragda. Sé þar einúngis þessi girnd, sé hún kroptug og alvarleg; sé sú girnd, sem vér finnum hjá oss til ad uppfylla Jesú lögmál, sterkari og ríkari enn sú girnd, sem vér finnum hjá oss til ad uppfylla lögmál vorrar spillíngar; hafi Krists kjærleiki gjort oss hughrausta til ad strída á móti sjálfum oss, og yfirvinna sjálfa oss; ef vér ángrumst í hvort sinn, sem nátt-úran sigrar oss, og gledjumst í hvort sinn, sem vér sigrum náttúruna, þá er þessi stoduga girnd til ad uppfylla þad, er Jesús Kristur hefir oss bodid, ávoxtur trúarinnar, sem er upptendrud í vorum hjortum; vér vitum þá líka, ad vér med ollum vorum veikleika hofum þó þá trú til ad bera, sem Gud heimtar af kristnum monnum, til ad gjora þá hlut-tak-andi þeirrar sælu, sem Kristur hefir þeim af-rekad. Vér efumst þá ecki um vora trú; vér ef-

esümst einúngis um hennar krapta, og þetta vantraust, sem vér høfum á sjálfum oss, gjørir oss þess árvakrari yfir sjálfum oss, og þess forsjállri í voru framferdi, svo ad vér ecki yfirsøllumst óvidbúnir, og vorir óvinir verdi oss yfirsterkari.

## XXXVI. Kapítuli.

### Um naudsyn Guds medverkunar til þess sanna góda.

Eg hefi nú sýnt, hvad á vora sídu útheimtist, ef vér skulum verda adnjótandi Jesú fridþægíngar, og vegna hans endurlausnar hafa grundvallada von um sælu þess ókomna lífs. Vér hljótum, nefnilega: ad hafa trúna á Jesúm Krist; vér hljótum ad sýna þad, ad vér trúum á hann med sannarlega gódum og kristnum manni verdugum verkum. En er oss þetta møgulegt af vorum eginn kroptum? edur er þad naudsynlegt, ad annar ædri kraptur komi oss til hjálpar? þetta spursmál hlýtur ad ransakast, svo ad vér ecki tilreiknum sjálfum oss hvørki oflítid né ofmikid. Gæti eg sannad, ad vér sjálfir séum of vanmáttugir til ad betra vor hjørtu og helga þau af vorum eginn kroptum einúngis, þá er þar med undir eins sannad, ad Guds medverkan er naudsynleg fyrir oss til þess sanna góda.

Þegar sagt er: ad vér af náttúrunni séum vanmáttugir til þess sanna góda, þá er ecki þar med neitad, ad manneskjan hafi viss-

 ann

ann náttúrlegann hæfilegleika til þess góða, án hvörs Gud sjálfur gæti ecki betrad hana, utan hann med sínu ómótstædilega almætti vildi umbreyta hennar náttúru, sem stríðir á móti vísdómi þeirrar ædstu veru. Manneskjan hefir skilning, sem kann ad upplýsast og sannfærast; hún hefir vilja, sem med kroptugum roksemdum kann ad svegjast. Madurinn er ad því leiti líkur leirnum, ad hann hefir hæfilegleika til ad mindast, en getur þó allt eins lítid, sem leirinn, mindad sig sjálfur. Hann er þarámót ólíkur leirnum þar í, ad hann getur misbrúkad sitt frelsi til ad mótstanda þeim krapti, sem leitast vid ad betra hann, en leirinn þarámóti lætur minda sig, án mótstödu. Þar fyrir segir Stephanus vid Gydínga: þér hardsvíradir og óumskornir í hjörtum og eyrum, þér mótstandid jafnan heilögum Anda, svo sem ydar fedur, svo og líka þér, Post. g. b. 7.

Þegar sagt er: ad manneskjan hafi af náttúrunni eckert frjálsrædi til þess sanna góða, þá hljóta menn ad gjora mismun á milli sjálfs kraptarins og hans brúkunar. Ef vér hugleidum manneskjunnar frjálsrædi einúngis sem krapt, þá er þad verulegur eginlegleiki mannsins sálar, er allt eins lítid kann ad missast vegna syndarinnar, sem allir hinir adrir sálarinnar kraptar, svo lengi manneskjan skal vera manneskja. En manneskjan getur ecki, af sjálfri sér til, brúkad þetta frjálsrædi til þess sanna góða. Manneskjan er í sínu náttúrlega tilstandi

standi lik sjúkum manni, sem ad sönnu hefir enn þá skynsemi, minndunar-krapt, sansa, ad því leiti, sem þessir eginlegleikar álítast sem kraptar í manneskjunni; en þessir kraptar eru aflagadir; hann brúkar þá annadhvort ecki, edur hann brúkar þá ránglega.

Þegar sagt er: ad manneskjurnar séu af náttúrunni vanmáttugar til þess sanna góda, þá neitast ecki þar med, ad þad standi í hennar valdi, ad ásetja sér vissar gódar athafnir; t. d.: ad bidja, lesa, heyra Guds ord, og svo, framvegis; sá stollti Pharísæari giordi í þessum pósti þad sama, sem sá gudhræddi Tollheimtumadur, en samt var þeirra hjartalag ólíkt. Vér neitum ecki heldur, ad þær kunni ad hafa eina og adra góda eginlegleika til ad bera, og fremja einar og adrar útvortis dygdugar athafnir. Reynslan sýnir þad, sem er þvertámóti. Náttúrleg manneskja kann mikid vel án Guds adstodar ad vera örlát, þénustuviljug, hreinlynd, hóflsom, medaumkunarsom. En þessar dygdir koma stundum af óhreinum tilgángi, stundum eru þær eintúngis náttúrufars dygdir, hvorjar eru allt eins naudsynlegar, sem þad, ad trén beri ávextina, og dýrin elski þeirra afqvæmi. Þvílíkar manneskjur eru í vissann máta dygdugar, af því þeim er ómögulegt ad vera lasta-fullar. En med öllu þessu er hjartad ecki betrad.

Nei, þegar sagt er, ad manneskjan sé af náttúrunni vanmáttug til þess sanna góda, þá má

nná leita ad þessum vanmætti framar í vilj-janum enn í kroptunum. Vér erum vanmátt-ugir til þess góda, framar vegna þess, ad vér ecki viljum, heldur enn ad vér ecki gétum gjort þad: Sú medfædda tilhneiging vors vilja til þess vonda er svo mègn, svo rík, svo drottn-andi, ad eckért náttúrlegt medal orkar ad snúa henni til þess sanna góda. Og þetta er þad, sem eg hér vil færa sönnur á.

Öll heilög Ritning sannfærir oss um þennann svo mjøg audmýkjandi sannleika. Hún segir: ad holdsins þánkar séu fjandskapur á móti Gudi, ad þeir séu ecki Guds løg-máli undirgéfnir, og þeir géti ecki heldur verid þad, Róm. 8. Ad sanfalegur mad-ur géti ecki skilid Guds Anda lærdóma, ad þeir séu honum heimska, og hann géti ecki gripid þá, 1 Cor. 2. Ad enginn géti komid til Krists, nema fadirinn dragi hann, Jóh. 6. Ad enginn kunni ad gjøra neitt án Krists, Jóh. 15. Ad vér ecki séum duganlegir af sjálfum oss til ad þenkja neitt, svo sem af sjálfum oss; heldur komi vor dugnadur frá Gudi, 2 Cor. 3. Ritn-ingin kallar mannesskjunnar betrun fædingu, Jóh. 5. skøpun, 2 Cor. 5. upprisu, Col. 3. til ad kenna oss þar med, ad vér allt eins lítid gétum sjálfir betrad vor hjørtu, sem vér af vorum eginn kroptum gétum skapad oss sjálfir, edur uppvakid oss aptur til lífsins þeg-ar vér einusinni hofum misst þad í daudanum;

og

og ad Guds medverkandi kraptur útheimtist þess vegna til þess eina, sem til hins annars. Ritníngin kénnir þar fyrir allvída, ad vér sjálfir séum vanmáttugir til þess sanna góda, og ad Guds medverkandi kraptur sé eldúngis naudsynlegur til ad betra vor hjørtu.

En Ritníngin kénnir þó í þessu efni ecki annad enn þad, sem madur med réttri brúkun skynseminnar getur audveldlega sjed. Eins og þar er til einúngis ein dygd, sem er innisalin í almennilegri, stodugri og sterkri girnd til þess góda, af hvorri allar adrar dygdir og gódar athafnir útqvíslast eins og smá-lækir; þannig er lika mannsins náttúrlega medfædda spilling innifalin í drottnandi og sterkri tilhneigíngu til þess ílla, er skiptist í ymsar greinir, og lætur sig í ljósi hjá einni manneskju undir þessari, og hjá annari undir annari ásýnd; hjá einni manneskju í yfirdrottnun skilníngarvitanna, hjá hinni í hofmód; hjá einni manneskju í ágirnd, hjá hinni í eydslusemi, og s. fr. Sæti þessarar sterku tilhneigíngar til þess ílla er í viljanum; og í viljanum hlýtur lika ad vera sæti þeirrar gagnstædu tilhneigíngar til þess góda. Og er þad þá mögulegt ad tvær gagnstædar tilhneigíngar, af hvorri sú eina midar á þad góda, og hin onnur á þad ílla, gèti verid sameinadar í þeim sama vilja? edur er þad mogulegt, ad sálin, hvorri ad er medfædd sterk og drottnandi tilhneiging til þess ílla, gèti af sínum eginn kroptum uppvakid

hjá

hjá sèr sjálfri gagnstæda sterka tilhneigíngu til þess sanna góda? þad er allt eins ómøguligt, sem ad myrkrid géti framleidt ljósid.

Ad sonnu má hafa hèr á móti, ad madur med skynseminni géti svo greinilega sett sèr fyrir sjónir þad skammarlega og skadlega íløstunum, og þad heidurlega og nytsamlega í dygdunum, ad viljinn hljóti um sídir af þessari umþenkíngu ad snúast frá því illa til þess góda, frá løstunum til dygdanna. Þetta er hægt ad segja, enn torveldt ad framqvæma, og án þess ad ædri kraptur sé í verkinu med, mun þad án efa verda eldúngis ómøgulegt. Já, ef vèr einúngis tølum um optrúin vora girnda, sem vèr høfum mætur á, ad þær ecki brjótist út í verknadinum, þá medkénni eg, ad skynsemin kann ad gjora nockud ad verkum. Lifandi og sterk umþenkíng, hvørsu sóttvirdilegir og skadlegir lestirnir eru, kann ád koma svo miklu til leidar í vorum vilja, ad vèr demþum þá, svo þeir brjótist ecki út í verkunum, ef vèr erum hræddir um, ad þeir verdi oss til skada edur skammar. Dryckjumadurinn kann ad fordast vínsins, og sá lausláti frillleikans tillockanir, þegar sá eini sjer, ad hann skadar þar med heilsu sína, og hinn annar, ad hans heidur skérdist. Sá stolti kann ad sýna sig lítillátann og vidmóts-gódann vid þá, sem eru minnihátar, sá ágjarni kann stundum ad gjora kjærleikans verk, bádir til þess, ad þeir ecki skuli sýnast ad vera þad, sem þeir eru í raun

raun rèttri. Svo miklu kann skynsemin til leidar ad koma, jafnvel þó hún ecki ætíd gèti áunnid svo mikid yfir mannsins hjarta. En er hugar-farid þar fyrir ordid betra? erum vèr gódir og dygdugir fyrir þad, þó vèr af ótta edur egingagni ecki látum þad allt eptir oss, sem oss til-lángar, edur þó einn losturinn stridi á móti odrum og yfirvinni hann? er ecki tilhnegíngin til þess illa samt kyrr í viljanum? elskum vèr þad ecki enn þá? óskum vèr ecki, ad þær hindranir væru úr vegi rýmdar, sem standa á móti mettun vora girnda. Þess vegna hefir skynsemin einúngis lagfært útvortis sidsemina, en ecki umbreytt hjartanu. Tilhnegíngin til þess vonda dylst enn þá, eins og eldurinn, undir oskunni, og bidur einúngis eptir óhultu tækifæri til ad brjótast út.

Ef vèr þarámóti tölum um hugar-farsins innvortis betrun, þá stend eg uppá, ad skynsemin af sjálfrar sinnar kroptum megni öldúngis ecki ad framqvæma þessa betrun, sé hún ecki styrkt af odrum ædra krapti. Skynsemin hefir mektugann óvin, þar sem skilníngarvitin eru, og þær tilhnegíngar, er þau uppvekja, hvorjar ad eru skynseminni yfirsterkari, og gjora hana ósjálfráda ad brúka fullkomlega hennar krapta. Vorar girndir byrjast strax eptir fædínguna; eptir því sem árin fjolga, verda þær daglega sterkari, og þess vegna bágara ad yfirvinna þær. Af vananum, æsíngunni, heimsins tilloekunum og vondum eptir-

dæmum dafna þær ýdugleg á. Þannig hafa vorar girndir nærstum því náð fullum þroska, ádur enn madur getur neytt skynseminnar. Hvorsu mørg ár lída ecki, þángad til sálarinnar ædri kraptar eru ordnir nockurnveginn þroskadir? hvorsu mørg ár hlaupa ecki af æfi vorri, ádur enn vér forunt ad þenkja skynsamlega um vorar athafnir og vort sálar ástand? og á medan hafa vorar girndir og vorar geds-hræríngar náð fullum kroptum. Hvorsu náttúrlegt er þá ecki, ad geds-hræríngarnar dauf-heyrist vid skynseminnar raustu? skynsemin hefir ad vísu enn þá krapt til ad gjora greinar-mun á milli ills og góds, á milli dygda og lasta. Vér erum ad vísu ecki svo spilltir, ad vér ecki álitum ágirni, stollt, vellyst, ofund, hefndargirni og baktal fyrir lesti; allir vitum vér, ad hóffemi, audmýkt, hógværd, trygd, réttvísi, medaumkan og mann-elska eru fagrar og elskuverdar dygdir. En þegar vér eigum nú ad heimfæra þessa þeckingu uppá sjálfa oss, þá draga vorar girndir, hvorra raust lætur lángtum hærra enn skynseminnar raust, skýlu fyrir oll þessi alkunnu sannindi. Vér dæmum nú ecki framar eins og ádur, vér gefum sonnu hlutunum oll onnur nofn. Þad, sem hjá odrum heitir stollt, er hjá oss ſkickanleg sómatilfinníng, ágirnd er forsjál medferd Guds gáfna, og hefndar-girni er réttvísi. Vér álitum lestina á allann annann kant, þegar vér dæmum um adra, heldur enn þegar vér dæmum um

sjálfa

sjálfa oss. Af því vér elskum sjálfa oss og vorar girndir, erum vér ætíð hnegðir til að afsaka þá, og álíta vora lesti fyrir mannlegann veikleika. Hvað er þá að undra, þó vor náttúru-spilling sái sigur yfir skynseminni? vegna synda-fallsins er skynsemin í sjálfri sér veik, villu og raungum meiníngum undir-orpin; vorar girndir þarámóti, hafa allt frá barnæsku vorri á hvörjum degi orðið sterkari, ráð-ríkari, torsóktari til að yfirvinna. Vorar girndir fá liðveitslu af vorri spilltu sjálfs-elsku, skilníngar-vitanna tillockunum og heimsins eptirdæmum; vor skynsemi hefir alla þessa óvini á móti sér, og af sjálfri sér til hlýtur hún að stríða með biluðum kroptum. Hvað skyldi skynsemin þá géta áorkað á móti svo öblugum óvinum, ef Guðs meðverkan styrkir hana ecki til þess sanna góða?

Reynslan synir líka, hvörsu vanmáttugir vér erum af vorum eginn kroptum að framqvæma vora betrun, þó vér ecki gætum sannað það af eðli vorrar meðfæddu spillíngar. Ef að vér sjálfir værum fullfærir til að byrja og fullkomna vora betrun, þá ættu allir þeir að verða góðir og dygdugir, sem meðtaka trúarbrögðin og álíta þau guddómleg. Allir þeir, sem kannast við, að trúarbrögðin hafa guddómlegann uppruna, hljóta nauðsynlega að vita þessi alkunnu sannindi: að án helgunar kann enginn Drottinn að sjá; að óvaxtarsöm trú er nauðsynlegur skilmáli sálu-

 hjálp-

hjálparinnar; ad þeir, sem Kristi tilheyra hljóta ad krossfesta þeirra hold med þess girndum og tilhneigingum. Allir þeir, sem medtaka Jesú trúarbrögd fyrir guddómleg, hljóta ad vita: ad hórdómur, skjækju-lisnadur, saurlisi, lauslæti, afguda-dyrkan, kukl, hatur, deilur, keppni, offstæki, þráttanir, tvidrægni, flocka-dráttur, öfund, mord, ofdryckja, óhófs-veitslur, eru þvilikir lestir, sem útilykja oss frá Guds riki; Gal. 5. Allir æskja sér ad verda adnjótandi þeirrar sælu, sem Ritningin lofar oss; allir vita, ad jafnvel sá minnsti undandráttur í betrun sins hjarta er hættulegur, og ad sú betran, sem nú er audveld, verdur med undandrættinum fyrst ördug, og sídan ómöguleg. Í þessum almennu meiningum kémur öllum saman; en hvad stodar oss þessi þecking, þegar vorar girndir fara ad hreyfa sér? eru þeir þá allir gódir og heilagir, sem hafa þessa þeckingu til ad bera? edur kénnir ecki reynslan miklu framar, ad vorar girndir og géds-hræringar sveypa þann best uppfrædda skilning í þoku, sem hann ecki gétur þreyngt sér igégnum?

Þad er þess vegna óneitanlegt, ad vér af vorum eginn kroptum og af sjálfum oss til, erum öldungis vanmáttugir til þess sanna góda, Ritningin, skynsemin og reynslan sannsæra oss um þennann vanmátt; og sé skynsemin ecki megnug um ad betra vort hjörtu, og hreinsa þau af þeirra medfæddu spillingu; sé skynsemin

in ecki megnug um ad uppvekjá sanna, sterka og stadfasta tilhneigíngu til þess góda hjá oss, sem af náttúrunni hofum sterkari tilhneigíngu til þess illa, hvad skyldi þá geta framqvæmt þessa betrun hjá oss, þegar skynsemin med sinum kroptum yfirgéfur oss? sannarlega eckért annad, enn hjástod þeirrar ædstu veru, sem verkar í og med oss; og þannig eru þad sannmæli, sem Páll segir: ad Gud, eptir sinni velþóknun, verki í oss bædi viljann og máttinn, Phil. 2. Vér eigum ad brúka vora skynsemi, þess vegna hefir Gud géfid oss hana; en vér drøgum oss á tálar, ef vér einúngis leitum hjá henni ad ánægjanlegum læknisdómi á móti sjúkdómi vorrar sálar. Skynsemin, styrkt af nádinni, kann ad gjora nockud ad verkum til ad betra vort hugar-far; en af sjálfrar sinnar ramleik mun hún aldrei géta upprætt þad vonda ásaltt med rótinni; aldrei munum vér sá fullkomid herra-dæmi yfir sjálfum oss, ef vér ecki brúkum önnur vopn enn þau, sem skynsemin frambýdur oss. Eins munum vér verda þrælar vorra girnda, ef vér ecki leitum þeirrar óblugu nádar, sem upphefur oss yfir sjálfa oss.

* * * * * * * * *

Þessi kraptur, med hvorjum Gud verkar betrun mannsins hjarta, er í sjálfum sér nógu máttugur til ad yfirvinna vora spillíngu, væri hann ecki í sjálfum sér nógu máttugur, hvorn,

inn kynni Guð þá að frambjóða hann? hvað mundum vér dæma um þann læknir, sem frambyði oss þann læknisdóm, er hann fyrisæi, að mundi verða gagnslaus? hvörninn kynni Guðs vilji um vora sáluhjálp að vera rétt alvarlegur, ef hann vildi að vér yrðum hólpnir, og gæfi oss þó ekki þau kroptugustu meðöl oss til betrunar? sé það satt: að Guð hafi enga velþóknun á syndarans dauða, Ezech. 33. sé það satt, að Guð vilji, að allir menn verði sáluhólpnir, 1 Tim. 2. þá hlýtur það líka að vera allt eins satt, að sá kraptur, sem Guð brúkar til að betra mannsins hjarta, hlýtur í sjálfum sér að vera ánægilegur; því að vilja augna-miðið og vilja þó ekki undir eins þau ánægilegu meðöl, sem útheimtast til að ná þessu augnamiði, getur ekki staðist með vísdómi þeirrar æðstu veru. Og séu þau meðöl, sem Guð brúkar til að betra oss með, ánægileg til að efla þetta augnamið, þá er skuldin hjá oss, ef vér ekki brúkum þessi meðöl til að losast við vora spillingu.

En þó að Guðs betrandi náð sé í sjálfri sér ánægileg, þá er hún samt ekki ómótstæðileg; Skaparinn hlýtur, eptir sínum vísdómi, að verka með hvörri skepnu samqvæmt hennar náttúru. Vér erum frjálsráðar verur, með vorri fríviljugu hlýðni eigum vér að vegsama vorn Skapara; hvörninn kynni Guð þá með ómótstæðilegum krapti að betra vor hjörtu? vér mundum að sönnu betrast, en hvað yrði

þá

þá af manneſkjunnar frjálsrædi? og hvørninn yrdi Skaparinn þá vegſamadur med verri fríviljugu hlýdni? vér yrdum þá ad víſu dygdugir, en varla mundi vor dygd verdſkulda ad bera þetta nafn; vér værum þá einúngis dygdugir ſmídis-gripir; en þvílík dygd gæti aldrei unnid til neinna launa. Nei, ſkuli vor dygd og vor hlýdni umbunaſt ſídar meir, þá hlýtur hún ad vera fríviljug, Guds nád hlýtur ad verka med kroptugum, en ecki ómótſtædilegum hætti. Manneſkjan hlýtur ad leidaſt, yfirtalaſt, og upporfaſt til þeſs góda, en ecki þvíngaſt; hún hlýtur ad halda ſínu frjálsrædi til ad fylgja þeim krapti, ſem leidir hana til dygdarinnar, og til ad ſetja ſig á móti honum. Ritníngin kénnir líka, ad vér hofum þetta frjálsrædi, og misbrúkum þad til vorrar egin ógjæfu. Þeſs vegna ſegir Lúcas um Pharíſæana og hina ſkriftlærdu: ad þeir hafi ónytt Guds tilgáng ſér ſjálfum til ſkada, Lúc. 7. Þeſs vegna kaſtar Stephanus Gydíngunum þeſſu í naſir: þér hardſvíradir og ómmſkornir á hjørtum og eyrum! þér mótſtandid jafnan heilögum Anda, líka ſem ydar forfedur ſvo og líka þér, Poſt. g. b. 7. Þeſs vegna qvartar Gud þannig yfir ſínu fólki: eg útbreiddi mínar hendur allann daginn til óhlýdugs fólks, til þeirra, ſem gengu eptir þeirra eginn þaunkum, á þeim vegi, ſem ecki er gódur, Eſ. 65. Hér af ſjáum vér gløggt, ad þó Gud brúki kroptuga vid-

leitni

leitni til ad betra oss; þá holdum vèr samt vorú frjálsrædi til ad ónýta Guds vidleitni, og til ad mótstanda þeim krapti, sem reynir til vid oss. Þar í er orsökin innifalin, ad sumir betrast vid Guds ord, en sumir ecki. Ad nockrir betrast vid þad, er røksemd fyrir því, ad sá kraptur, sem verkar med manneskjunum, er í sjálfum sèr ánægilegur, og ad nockrir betrast ecki, sýnir, ad vèr getum stadid á móti Guds nád, og ad hún þess vegna verkar ecki med ómótstædilegum hætti í manusins hjarta.

Já, því midur! kénnir dagleg reynsla, ad vèr, oss sjálfum til fordæmingar, getum mótstadid Guds nádar-ríku vidleitni, og því lengur, sem vèr mótstondum henni, þess hardara verdur vort hjarta, þess torveldari verdur vor betran. Sú náttúrlega mótstada, med hvorri vèr fædumst í heim þennann, vex dagslega af vananum og æsingunni. Því er eins háttad med þad vonda, sem þad góda; því meira, sem vèr æfum oss í dygdunum, þess dygdugri verdum vèr, þess hægra veitir oss ad uppfylla vorar skyldur, þess stærri lyst fáum vèr til ad halda áfram á heilagleikans hlaup-skeidi. Eins er því líka varid med þad illa; sá manneskja, sem dag frá degi lætur sína náttúrlegu vanart vid sig ráda, hún æsist smámsaman í hinu illa, af æsingunni kémur syndsamlegur ferdugleiki, med ferdugleikanum eykst lystin til þess illa, hún verdur dag frá degi megnari, og loksins ósigrandi. Nú

er skynsemin rekin úr hásætinu og samvitskan af dómstólnum. Náðar-medølin verka ekki fram-ar, Evangelii fyrirheit vinna ekki á, og lög-málsins-hótanir skelfa ekki. Þannig søckur mann-eskjan ætíð dýpra ár frá ári; en svo lángann tíma þarf þó ekki; sú manneskja, sem dag frá degi stríðir á móti þeirri náð, er leitast við að betra hana, søckur þannig ætíð dýpra, frá breyskleikans til ásetníngs synda, frá ásetníngs syndum til forherdíngar. Sigurinn yfir hans hjarta, sem í fyrstunni var auðveldur, verður smámsaman torveldari, þar til hann að síðûstu verður øldúngis ómøgulegur. Því nær sem hún kémur grofinni og eilífðinni, þess harð-ara verður hjartað. Gamall syndari er for-herdtur syndari. Ef vér þess vegna viljum nockurn tíma betrast, hreinsast og helgast und-ir eilífdina, hvar fyrir viljum vér þá undan-draga það svo lengi, þángað til það, sem nû þegar er ærið ørdugt, verður enn þá ørdugra? skyldum vér stríða svo lengi á móti Guðs náð, þángað til vor spilling er orðin svo mognuð, að Guðs viðleitni vinnur ekkért á vor hjortu? vér hræsnum fyrir sjálfum oss með þeirri svik-ulu von, að vér undir vora síðustu endalykt gétum géfið Guðs betrandi krapti rúm í vor-um hjortum; en hvorsu hættulegur er þessi und-andráttur! hvorr veit, hvað lángt eða skammt hann á eptir ólifað? hvorr veit, hvort hann muni sofna útaf rólega með fullkominni brúk-un sinnar skynsemi, ellegar burtsviptast í ræn-

leysi, sem ecki leysir honum ad þenkja um sitt sálar-ástand? hvørr veit, hvørt hann muni enda sina lífdaga á sóttar-sænginni, ellegar snøgglega burtkippast midt í sínum syndum? og uppá alla þessa óvissu skyldum vér byggja vor kjør um alla eilífd! hvílík ofdirfska, sem ecki kynni ad væntast utan af þeim, sem í orvæntíngu hefdu fráſvarid sér eilífa sælu; en ecki af þeim manneskjum, sem í lítilvægari hlutum bráka forsjálni og framsýni.

## XXXVII. Kapítuli.

### Um krapt Guds ords til ad betra hjartad.

Eg hefi sannad, ad Guds medverkan sé oldúngis naudsynleg til ad betra mannsins hjarta; en Gud verkar ecki medals-laust; manneskjurnar eru skynsemdarfullar og frjálsar verur, þær hljóta ad leidast til þess góda med skynsamlegum og kroptugum rØksemdum, med skírum og sterkum fortolum, sem ígégnum skilníngin þreyngja sér inn í hjartad; þar fyrir hefir Gud géfid þeim kristnn sitt ord; med því upplýsir hann skilníngin, med því hnegir hann viljann. Fyrir Guds ord skiljum vér ecki þá heilogu Ritníngu sjálfa; því Guds ord er eldri enn Ritníngin; heldur nefnum vér Guds ord oll þau guddómlegu sannindi, sem Ritníngin inniheldur, sem eru bygd á Ritníngarinnar lærdómum, og eru þeim samhljóda. Þetta Guds ord, sem er géfid manneskjunum til ad upp-

lýsa þeirra skilníng og betra þeirra hjarta, hefir ecki ad eins sameginlegann krapt med ödrum mannlegum skrifum, heldur hefir þad Þaradauki guddómlegann, oldúngis himneskann og yfirnáttúrlegann krapt. Viturs og skynsams manns ord hafa náttúrlegann krapt til ad sannfæra skilnínginn og beygja viljann, Tali hann um sannindi, sem menn eiga ad trúa, leggi hann til grundvallar alkunnar og almennt vidteknar ástædur, dragi hann þar af réttar og skiljanlegar ályktanir, bæti hann þar vid óneitanlegri reynslu, og gjöri hann þar med sannleikann sýnilegann, þá verdur skilníngurinn tekinn til fánga, hann sannfærist og medtekur sannleikann. Tali hann um dygdir og lesti, útskiri hann hvort um sig greinilega, leidi hann oss fyrir sjónir, hvílíkann heidur og nytsémi dygdirnar færi med sér, hvílíka skömm og skada lestirnir dragi eptir sig, færi hann sönnur á hvort-tveggja med órækum eptirdæmum, þá sannfærist skilníngurinn, og viljinn finnur einslags krapt, sem ad minnsta kosti um nockurn tíma, kann ad hindra lestina frá ad brjótast út, þó hann ecki géti fullkomlega upprætt þá. Hvílíkann krapt kunna mannsins ord ad hafa, þennann krapt hefir einnig Guds ord. Vér finnum í Ritníngunni trúar-lærdóma og lífernis-skyldur. Þeir fyrri koma svo vel saman hvort vid annann, sem og vid skynsemina, ad sá skilníngur, sem er réttsýnn, og hvorki af raungum meiníngum ellegar vanart hjartans

 hindr-

hindraft í sínum dómi, hlýtur naudsýnlega ad sannfæraft. Þær sídari koma svo vel samansvid mannsins náttúru og hans sonnu velgengni, ad þad hjarta, sem enn þá ecki er fullkomlega spillt, hlýtur ad verda vart vid heimugleganns krapt, sem í því verkar.

En Guds ord hefir ecki einúngis náttúrslegann krapt sameginlegann med ödrum mannslegum sannindum; þad hefir líka yfirnáttúrslegann og gudlegann krapt. Þess vegna kallast þad hamar, Jer. 23. þruma, Psálm. 68. eldur, Jer. 5. óforgengilegt sædi og lifandi ord, 1 Pét. 1. Þeis vegna tileinkast ordinu, ad þad opni augu þeirra blindu, Es. 42. og uppveki þá andlega daudu, Eph. 2. Kénna oss ecki þessi orda-tiltæki, ad þau guddómlegu sannindi hafi yfirnáttúrlegann krapt, sem engir mannlegir lærdómar hafa til ad bera. Guds ord opnar augu þeirra andlega blindu; Guds ord uppvekur þá andlega daudu; og getur þá blindur madur gefid sér sjálfum sjónina? getur daudur madur uppríſid aptur af sínum eiginn kroptum? og þetta er Guds ords verkun. En sé verkanin yfirnáttúrleg, þá hlýtur kraptursinn einnig ad vera þad. Þess vegna segir líka Páll: ad Evangelíum hafi guddómlegann krapt til ad frelsa sérhvörn, sem á þad trúir, Róm 1. Og í ödrum stad segir hann: lærdómurinn um krossinn er ad sönnu álitinn, sem heimska af þeim, sem tapast, en fyrir

oss

oſs, ſem frelſumſt, hefir hann guddómleg-legann krapt, 1 Cor. 1.

Og þó Ritníngin tillegdi ecki Guds ordi þennann yfirnáttúrlega krapt, mundum vér þá ecki ſamt af ſkynſemi vorri géta ſied, ad þad naudſynlega hlýtur ad hafa hann? þad guddómlega ord, ſem Drottinn hefir géfid mann-eſkjunum, hlýtur ad hafa vigtugt augna-mid, og þad medal, ſem Gud brúkar til ad fram-qvæma þvílíkt augna-mid, hlýtur ad vera þad hentugaſta og kroptugaſta. Hvört er nú augna-mid Guds ords? óneitanlega þetta, ad þad ſkuli betra, helga vor hjörtu, og gjöra oſs hæfilega til eilífdarinnar. En ad guddómlegur kraptur útheimtiſt til ad betra mannſins hjarta, þad hefi eg hér ad framan ſannad. Ad helga ſálina, ſem af náttúrunni er vanheilog, er í nádarinnar ríki allt eins ſtórt krapta-verk, ſem í náttúrunnar ríki ad umbreyta vatni í vín. Þar fyrir ſegir Drottinn fyrir munn Spá-mannſins Jeremíæ: gétur Mórlendíngur-inn ſkipt um ſinn hörunds-lit, edur Pard-us-dýrid um ſína flecki? ſvo kunnid þér líka ad gjöra þad góda, ſem lært hafid ad gjöra þad ílla, Jer. 13. Þad eina, vill Drottinn ſegja, er fyrir manneſkjurnar allt eins ómögulegt, ſem hid annad; (hvört-tveggja er yfirnáttúrleg verkan, þad hid ílla lodir allt eins faſt vid oſs af náttúrunni, ſem ſvarti liturinn vid Mórlendínginn og dýlarnir vid Pardus-dýrin. En þar Gud hefir géfid oſs ſitt ord,

 ſem

sem medal til ad framqvæma yfirnáttúrlega verkun, þá hlytur þad líka ad hafa yfirnáttúrlegann krapt; annars væri þad ecki hentugt, kroptugt og Guds vísdómi verdugt medal til mannanna sáluhjálpar.

En, vilji einhverr spyrja: hvar í þessi yfirnáttúrlegi kraptur sé þá innifalinn, sem Guds ord hefir fram yfir alla mannlega lærdóma? þá svara eg þar til: ad Guds ords mikli kraptur til ad betra mannsins hjarta, er sumpart innifalinn í þeim lángtum sterkari tilknyjandi roksemdum, med hvorjum vér hér upporfumst til dygdanna og fælumst frá löstunum, sumpart í Guds sérdeilislegri medverkun. Þegar skynsemin vill upporfa oss til hlydni og kjærleika, þá gétur hún sett oss fyrir sjónir Guds velgjorninga, sem vér í þessu lífi medtokum af Guds orlætis-hendi; en hvorsu lifandi og sterkar, sem þessar hugleidingar eru, þá hefir vor stollta sjálfs-elska þó alltíd nógar afbatanir til ad setja á móti þeim og dempa þær med. Eru þeir margir, sem þykjast hafa medtekid nóga velgjorninga af Gudi sínum? svo lengi vér sjáum adra, sem eru luckulegri enn vér, þá álitum vér oss sjálfa ólukkulega. Hvorsu, sem luckan leikur vid oss, þykja oss þó launin varla svara til þess, sem vér hofum tilunnid. Hvorsu fogur og glæsileg, sem vor farsæld sýnist ad vera, þá er hún þó aldrei fullkomin í þessu lífi, og svo lengi, vorar ósedjanlegu girndir vantar nockud, þá

þykir

þykir oss, sem vèr hofum eckèrt. Gledin yfir því góda, sem vèr egum, dodnar af hrygdinni yfir því góda, sem oss enn þá vantar. Sú sál hlýtur ádur ad vera helgud, hjá hverri hugleidíng Guds velgjorninga í náttúrunni skal gjora ávaxtarsama verkun. En hversu miklu kroptugri hlýtur ecki ad vera hugleidíng Guds kjærleika í Kristi? Þetta er þvílíkur velgjorníngur, sem er allt eins stór, sem óskiljanlegur; þvílíkur velgjorníngur, hvers vèr njótum um alla eilífd, þegar Guds velgjorníngar í náttúrunni hafa enda tekid. Þvílíkur velgjorníngur, sem ollum án mismunar stendur til boda, háum og lágum, ríkum og fátækum, lærdum og fáfródum. Lifandi umþenkíng þessa Guds kjærleika, hversu kroptug má hún vera til ad upptendra í vorum hjortum heitann kjærleika aptur á móti? og af þessum kjærleika hlýtur aptur ad fædast glod hlýdni, sás afneitan sjálfra vor og heimsins, og roskur framgángur á dygdanna og heilagleikans hlaupskeidi. En þessa tilknýjandi roksemd er einúngis ad finna í Guds ordi, en skynsemin veit eckèrt af henni ad segja.

Þegar skynsemin vill upporfa oss til dygdar og heilagleika, þá kann hún ad sonnu ad útmála oss dygdirnar med þeirra fegru, og lestina med þeirra ljóta lit; hún kann ad setja oss fyrir sjónir dygdanna nytsamlegu, og lastanna skadlegu afleidíngar; en hún sýnir oss ecki þessar afleidíngar lengra enn til grafarinnar.

ar. Hvad hvert um sig leidir eptir sig hinn megin gráfarinnar, veit skynsemin lítid edur ecként. En þær hugleidingar, sem ná svo skamt til, hvad mikid munu þær géta áunnid yfir spilltu hjarta? dygdirnar hafa ad sönnu í þessu lífi góda og sælufulla ávexti; fridur sálarinnar, rósemi samvitskunnar, medvitundin um sína egin rádvendni og Guds velþóknan eru dygdanna laun, þvílík laun, sem eckért tilfelli gétur frá oss tekid. En, sá vanheilagi sem er þræll sinna lasta, gétur enn þá ecki smackad þessi laun hins dygduga, hann kann þess vegna ecki af dygdanna sælufullu ávoxtum, sem hann ecki þeckir, ad upporfast til ad ástunda þær. Lestirnir hafa líka í þessu lífi þeirra náttúrlegu ógédfeldu afleidíngar; en opt eru lastanna afleidíngar svo veikar, ad varla finnst til þeirra, og þó stundum finnist til þeirra, þá synist þó húngur ómettadra girnda ad vera lángtum sárara, heldur enn allar þær ógédfeldu afleidíngar, sem fylgja á eptir þeirra mettun. Hvad miklu mun skynsemin þá géta til vegar komid med þessum tilknýjandi roksemdum? nærsta litid, þegar spilling hjartans hefir nád vissum þroska. Þær kunna ad álítast, sem hjálpar-medøl, en géta ómøgulega einsamlar framleidt neinn sannann og hreinann heilagleika. Þær géta máské stemmt stiga fyrir, ad lestirnir brjótist ecki út í vondum verkum, en þær géta ecki þar fyrir hreinsad hjartad. Já, þegar skynsemin er styrkt af Guds Anda krapti, þá gétur hún máské komid

komid því til vegar, og þvílíkrar sérdeilislegr-ar aðstoðar kann hún að vænta hjá Heið-ingjunum, sem ekki hafa Guðs orð sér til leið-arvísirs og uppfræðingar. Hvörsu miklu stærri er Guðs orðs kraptur, það hefir í sjálfu sér þann krapt, með hvörjum það styrkir þann kristna í freistínganna ástríðu. Það setur oss fyrir sjónir alvitsku þeirrar æðstu veru, fyrir hvörri allir, jafnvel vorir heimuglegustu þánk-ar eru berir og naktir; það setur oss fyrir sjónir heilagleika, réttlæti og yfirherra-dæmi þeirrar æðstu veru, fyrir hvörri vér síðarmeir eigum að standa reikníng af sérhvörjum synd-samlegum þánka, sérhvörri hvarflandi girnd, sérhvörri ofsterkri geðs-hræríngu, sérhvörju ó-nytju orði, sérhvörri lastafullri athöfn. Það gefur dygðarinnar og heilagleikans elskendum von um himneska og eilífa sælu, og lángtum ypparlegri laun enn þau, hvar með dygðin um-bunar sínum dýrkendum hér á jörðunni. Það útmálar oss takmarkalausa eymd, sem liggur fyrir öllum forherdtum syndurum. Hvörsu miklu kroptugri hljóta þessar tilknýjandi rok-semdir að vera, heldur enn allar þær afleið-íngar dygða og lasta, sem skynsemin getur oss fyrir sjónir sett. Gæti ekki þessar roksemdir upporfað oss til dygðanna og fælt oss frá löstunum, hvað skyldu hinar þá gèta að verk-um gjört? en þessar tilknýjandi roksemdir eru einúngis að finna í Guðs orði, en skynsemin veit lítið eða ekkért af þeim að segja.

 En

En þessi kraptur, med hvørjum Guds ord verkar med sVo sterkum og oblugum roksemdum, er fólginn í ordinu sjálfu, þad er lærdómsins eginn kraptur; en Gud verkar líka sjálfur med sérdeilislegum hætti med sínu ordi, og gèfur því oldúngis yfirnáttúrlegann og guddómlegann krapt. Sjáid, segir Kristur, til sinna lærisveina, eg er med ydur alla daga allt til veraldarinnar enda, Matth. 28. Þad, sem Kristur lofar hér sínum lærisveinum, því lofar hann ollum kènnendum í þeirra persónu; hann vill vera med þeim, hann vill verka med þeim, hann vill leggja sína blessun til þeirra orda. Ritníngin vitnar líka allvída ad Guds Andi verki med ordinu í mannanna hjörtum. Hún segir: ad Guds børn leidist af Guds Anda, Róm. 8. Hún segir: ad heilagur Andi búi í oss, 2 Tim. 1. Og hvorninn býr Guds Andi í oss? hvorninn leidir hann oss? látum oss ecki þenkja til neinnar yfirordulegrar verkunar, þar hann hefir gèfid oss orduleg medol; nei, hann leidir oss, hann býr í oss fyrir sitt ord, med hvorju hann verkar í mannsins hjarta, og leitast krøptuglega vid ad betra þad. Þess vegna er ordid, fyrir utan þess eginn náttúrlega krapt, þaraduki styrkt med Guds Anda krapti. Skynsemin hefir eckért á móti þessum lærdómi, hún hlýtur miklu framar ad samsinna honum. Vèr kunnum ecki ad efast um, ad Gud verki í náttúrunnar ríki med ollum sínum skèpnum, og

